# X. Psalmur.

## Um̃ Fyrsta Ransak fyrer Caipha.

Ton, Allt mitt Ráad til Guds eg set, etc.

†

Til Hannas Hwsa HErran̄ Christ, Hardráader Judar leiddu fyrst, Beist frá eg Bond han̄ sære, honum strax þadan̄ vijsad var, Vidtekt fieck ei nie Hvijlder þar, Miøg svo þoott mæddur være.

Burt sende þvi med beiskre Pijn, bunden̄, Caiphas Mááge sijn, Hañas, vorn HErran̄ sæta, Hofud-Kieñemañs hædstu Stiett, hafde sá þetta Ared riett, Guds Logmaals ætte ad giæta. †

Ur Himna-Rijkis Hvijldar-Stad, hofdum vid Sáal mijn forskulldad, wtreken̄ vijst ad vera, Eñ JEsus took nu uppá sig, O-náadan þessa fyrer þig, Lof sie þeim liwfa HErra.

Hiartad bæde og Hwsed mitt, Herberge vere JEsu þitt, hiá mier þigg Hvijld hentuga, þoott þu komer med Krossen̄ þiñ, Kom þu Blessadur til mijn iñ, Fagna eg þier feigens Huga.

† Caiphas hafde hier um̄ spáad, hentugast munde þetta Ráad, ad dæe Eirn fyrer alla. † Embættes mællte Anden̄ þar, af þvi Hiartad ei visse þar, Sañleik Guds siñte valla.

Balaams Dæme eins var eitt, Andagypt slijk var honum veitt, spaklega Tungan̄ spáade, han̄

hafde i Siñe Hreckia-Raad, Hiartad fieck ecke Sañleiks gaad, þui hañ Fie-Gyrndeñ þiarde.

O JEsu! lat þiñ Anda hier, alldrei vijkia i burt fra mier, Leid mig Veg Lijfsins Orda, so Hiartad bæde og Mæled mitt, mykle Samhuga Nafned þitt, Hollds-Gyrnd og Hræsne forda.

† Til Caiphas voru komner señ, Kieñevallded og Stioornar-Meñ, Biskupeñ þegar ad Bragde, Leitar Andsvars til Lausnargns, uñ Læresveina og Kieñing hañs, Eñ JEsus aptur sagde.

Opeñberlega eñ ecke leint, i Musterenu kieñda eg beint, hvad spyr þu mig uñ þetta? Kuñgiora meiga þar uñ þier, þeir sem Lærdoomeñ heyrdu af mier, þa lættu þig Leidrietta. †

Giæt ad mijn Saal og siaadu þar, Sonur Guds under Rañsak var, krafdur þad Kvollded Eina, A Kvollde hveriu þu koma skallt, Kvolld-Reikning vid þig sialfur hallt, med Kvolld-Offurs Ydran hreina.

Pu Guds Kieñemañ þeink uñ þad, þar mun uñ siider grenslast ad, hverneñ og hvad hier kieñder, ad Læresveinum mun lijka spurt, sem liet þitt Gaalæsse villast burt, huxa gløgt hvar vid lender.

JEsus vill ad þijn Kieñing klaar, kroptug sie, hrein og opeñskaar, lijk hvellum Lwdurs Hlioome, Launsmiadran oll og Hræsneñ haal, hindrar Guds Oiird, eñ viller Saal, straffast med straungum Doome.

Vangiætslañ mijn er margvijslig, Milldaste JEsu

JEsu, bid eg þig, Væg þu Veikleika miinum, Forsoomun eingeñ faañst hiaa þier, Fullnadar Boot þad tel eg mier. Styrk veittu Pioonum þijnum!

Eins er hier eirneñ øllum riett, Alvarleg Kieñing fyrersett, ad Ord Guds Elske og Lære, Trweñ Iñvortis efle Gied, Einardleg Jatning lijka med, Avoxt hid ytra fære.

† Biskups-Pioon eirn i Bræde þo, Blessadañ JEsum Prwstur sloo, svo þad Ritningeñ seiger, hoogværlegt Andsvar HErrañ gaf: † Honum Saal mijn þad lærdu af, Uñ Sakleyse þitt ei þeiger.

Ovart Samvitskañ Adam sloo, illañ Kiñroda fieck hañ þo, J fyrsta Falle siinu, þess vegna JEsus Hogged hast, hlaut ad lijda og rodna fast, allra fyrst i hañs Pijnu.

DRotteñ JEsu eg þacka þier, þetta leidstu til Frelsis mier, Eg bid Astsemie þijna, Samvitsku-Slogeñ svida skiæd, at Saalu miñe þu nijk og græd, burt taktu Blygdan mijna, Amen.

# XI Psalmur

## Uñ Afneitan Peturs.

Ton, Dagur i Austre øllu, etc.

†

MUDspialls Historiañ gietur: Gripeñ þaa JEsus var, aller señ utañ Petur, yfergaafu hañ þar, og Læresveirn eirn añar,

æleingdar geingu hliodt, Herrans Braut Hrygdar saña, harla dim̃t var af Noott.

Caiphas Kieñemañe, kuñugur Læresveirn, Jñgeingur ort med Sañe, Ute stood Petur eirn, Ambætt upplwka beider, Okiendañ Petrum þa, J Forsal til Lijdsins leider. † Lærdoom hier fiña mæ.

Kross Ferle ad fylgia þijnum, fijser mig JEsu kiær, Vorkyntu Veikleik mijnum, þo verde eg æleingdar fiær, þa Trw og Pol vill þrotna, Preynger ad Nauden̄ vond, Neis þu vid Neiren̄ brotna, og riett mier þijna Hond.

† Kol-Elld, þvi kalldt var næsta, Kveikt hafde Præla Lid, Petur med Sturlan stærsta, stood hia þeim Logañ vid, Ambætt hañ ein Sprogsette, af sier þad heyra liet, mun þesse Mañ (hun friette) med JEsu af Nazareth?

Hañ neitar hradt ad Bragde, hræddur vid Orden̄ bist, þañ sig ei þeckia sagde: Pa gool nu Hanen̄ fyrst, ætlar sier wt ad rijma, s̄ñur Perna hañ sæ, talar i añañ Tijma, til þeirra er stoodu hiæ.

Af Nazareth nu er þesse, nykomeñ JEsu med, hiñar Gied trw eg þad hvesse, hvor Madur spyria ried, ertu eirn af hañs Sveinum? eñ Petur neita vañ, sagde med Eide einum: alldrei þeckta eg hañ.

Pridia Siñ þar til leadu, Pioonar Caiphas hert, Maalfæred sumer søgdu, seiger til hvor þu ert,

ert, Frænde Malchus ried mæla, munde eg þig ecke sia, (giet eg siist Grun mig tæla) J Gardenum JEsu hia?

Petur med bliwgu Bragde, bradlega sagde Ney, Soor sig og saart vid lagde, sooddañ Mañ þeckte hañ ei, glögt þegar giørdest þetta, gool Haneñ añad Siñ, † siist mætte Sorgum lietta, Swt flaug i Briooſted iñ.

Sæl mijn þier Fære forda, freklega voga siist, aan Leyfis DRottens Orda, Oſtyrkt er Hollded viist, þykest þu stødugt standa, stilla þiñ Metnad þarft, hvor sier vogar i Vanda, Von er sá falle snart.

Adur i Alden-Garde, O hræddur Petur vár, Kallmeñsku Huguren harde, hañs sig Auglijste þar, Audvyrd Ambaatt hañ hrellde, Ofmiog því skielfast vañ, Fra Sañleik sijdañ fellde, Saña þig henda kañ.

Kol-Ellde kveiktum jafnast, kytlande Veralldar Priaal, Prælar Syndaña safnast, samañ vid Losta-Baal, fuller med Fals og Villu, fordastu þeirra Glis, ætijd er med þeim Illu, Einfolldum bwed Slis.

Ambaatt med ygldu Bragde, er þesse Verolld leid, mørgum Mein-Snoru lagde, miog a Spott Yrdeñ greid, Pijed med Prælum sijnum, Piona Guds lastad fær, styrk mig med Mætte þijnum, moot heñe DRotteñ kiær!

† Epter Afneitan eina, wt villde Petur gaa,

hugde hañ Braut sier beina, bwna þeim Solle fra, þa kom eitt ødru verra, Uñkrijngdu Prælar hañ, affsoor siñ sæla Herra, sier og formæla vañ. †

Hægt er hvorium ad stofna, i Hættu og Vanda-Spil, Forvitnis Dælskañ dofna, Dregur þar margañ til, Ogiæfu Gilldrañ þraungva, Greip skiott þañ kuñe ad nær, Utkomu Von sieck aungva, ad þvi i Tijma gaa.

Opt mæ af Maale þeckia, Mañeñ hvør hellst hañ er, sig mun fyrst siaalfañ bleckia, sa med Last-Mælge fer, Goodur af Giede hreinu, Good-Ordur reynest vijst, fullur af Illu einu, Illyrdeñ sparar sijdst.

Hryggeleg Hrøsun hendte, heilagañ DRottens Pioqn, Syndeñ miog saart hañ spente, Saalar var bwed Tioon, hvad mun eg Maattarnaumur, meiga þa standast vid, Vangiæteñ, Vesæll og Aumur, Vielum og Hreckia-Smid?

I Veralldar Vøndsku Solle, velkest eg IEsu hier, Falle þad opt mier olle, Ostodugt Hollded er, megnar ei moote standa, mijn Hreyste Naattuelig, laattu þitt Lioos og Anda, leida og styrkia mig, Amen.

## XII. Psalmur.

Uñ Ydran Peturs.

Ton, Kom Ande Heilage, etc.

Petur

†

Petur þar sat i Sal, hia Sveinum iñe, Tvent hafde Hana-Gal, heyrt ad þvi Siñe.

Bweñ var þrisvar þa, þvert hañ ad neita, sier JEsum sælañ fra, Sorg mææ þad heita.

DRotteñ vor veik sier vid, viist um þad gietur, Liwfur med Lijknar Sid, og leit a Petur.

Strax flaug i Huga hañs, (hvad þo sijdst var-de) Lausnarans Ord og Ans, i Alden-Garde.

Blygdadest bræædt vid þad, Briost fullt af Trega, gieck wt wr greindum Stad, og griet beisklega. †

Siææ þu med sañe Trw, Sææl mijn Astkiæ-ra, Hvad framar hefur þu, hier af ad læra:

Hææt galar haneñ hier, i hvørs Mañs Giede, drijgdar þa Synder sier, sem Petur skiede.

Sæærlega Samvitskañ, Sekañ ææklagar, Iñ-vortis aumañ Mañ, æængrar og nagar.

Fær hañ sig friæælsañ sijst, þo fiñest hrelldur, sem Fugl vid Snwning snijst, heim Snarañ helldur.

Vijkia þo vilie hañ, fraa Vondsku Hætte, Or-ka þvi ecke kañ, af eigeñ Mætte.

Upp þo sier ætle bræædt, aptur ad standa, sekkur hañ þegar þrææt i þijngre Vanda.

Logmææl Guds hroopar hææt, Hana-Gal añ-ad, seiger og syner þrææt, hvad sie hier bañad.

Pad þvijngar, þrwgar med, þad slær og lem-ur, sorgande syndugt Sied, særer og kremur.

Pad verkar Sorg og Swt, þeim ſeka Mañe, hiaalpar þo eingeñ wt, wr Synda Bañe.

Hollded þar þriootſkaſt vid, og þyker illa, eykſt ꝍ þañ Synda-Sid, Svik, Hræſne og Villa.

Eñ JEſu Alit ſkijrt, Anda Guds þlįder, ſa giører hægt og hijrt, Hiartad uñ ſijder.

Lætur hañ Logmaal biſt, lemia og hræda, epter þad ſer hañ fyrſt, ad frida og græda.

Ord JEſu edla ſætt, er hañs Verkfære, hellſt fær þad Hugañ kiætt, þo hrelldur være.

Hañ giefur hreina Trw, hañ falleñ reiſer, hañ Veikañ hreſſer nu, hañ Bundeñ leyſer.

Ei er i ſialfs Valld ſett, ſem nockrer meina, Yferboot, Ydran riett, og Trweñ hreina.

Hende þig Hroſun bræd, ſem helgañ Petur, under Guds ættu Nææd, hvort ydraſt gietur.

Heimſka er veſta viijſt, vid þad ad dyliaſt, þu muner þa þier lijſt, vid Prauter ſkiliaſt.

Ef JEſus ad þier ſnijr, med Aſtar Hoote, lijtu þa Huga hijr, honum a moote.

Graata ſkallt Glæpe ſaart, eñ Gude trwa, alſka hañs Orded klaart, fra Illu ſnwa.

Onijt er Ydran tæp, ad þvi ſkallt hyggia, ef þu i giordum Glæp, gyrneſt ad liggia.

Petur þa formerkt ſieck, Fall, Hroſun ſlijka, ur Synda-Salnum gieck, ſo gior þu lijka.

O JEſu! ad mier ſnu, Aſioonu þiñe, ſiaa þu mig ſærdañ nu a Saalu miñe.

Þegar eg hraſa hier, hvad miøg opt ſañaſt, hend

bend þu i Myskun mier, so meige eg vid kanast.
Opt lijt eg upp til þijn, Augum grætande, lijttu þvi liwst til mijn, so leysest Vande, Amen.

# XIII. Psalmur.

## Um Caiphas Doom.

Ton, JEsus Guds Son Eingietenn, etc.

†

FOringiar Presta feingu, Fals-Vitne morg tilsett, Fwslega fram ad geingu, fuller med Svik og Prett, Samhlioo-da urdu eige, Uppdicktad margt þo seige, JEsus þa þagde sliett. †

Lær þu ef Ligum mæter, Lijfs-Reglu Saal mijn hier, med Forse og Pijnst ei þræter, Praulega so til ber, Hoogvær Þogn Heipter stiller, Heimsk-Ordur Sanleik spiller, opt fyrer sialfum sier.

Hirdtu alldrei hvad sem gyllder, ad hætta a Osatt Maal, hvort veria edur sækia villder, verdur þad morgum Taal, Munnur sa laungum lijgur, fra Luckw og Blessan hnijgur, hann deydir sijna Saal.

Sanleiks Vitne þa seige, sekann mig Gude hia, ottast þarf eg nu eige, Assokun hef eg þa, Lirwg-Votta Lijge megna, Leid JEsus minna vegna, Klogun mig keypte fraa.

Caiphas

† Caiphas friette fyrstur, Falsklega HErrañ ad, sialfur hvert sie hañ Christur? Og so eñ fra=mar kvad, vid sañañ Gud eg þig sære, ef Sonur hañs ertu hiñ kiære; Seigdu oss satt um̃ þad.

JEsus jaatar ad Stundu, jafnframt þvi so nam tiaa, Son Mañsins siaa þeir mundu, Sit=ia þadañ i fra, til Kraptarens hægre Handar, og hier epter komanda, skiærasta Skije a.

Kieñemañ reif sijn Klæde, kvad slijkt Gudlast=aner, Adspyr med Ogna Bræde, um̃ þad hvad hallded þier; Allt Raaded under tekur, er hañ vijst dauda sekur, soddañ samþyckium vier. †

JEsus ei ansa hirdte, aadur þa loged var, Guds Nafn þo giarnañ virdte, gaf þvi Caiphæ Svar. Lygd Heims þo lijted sæter, Lausnar=ans Dæmis giæter, leita Guds Lofdijrdar.

Hygg ad og herm hid saña, hvenær sem til er reint, hrædst ei Hootaner Maña, hallt þiñe Jaatning beint, giæt vel ad geimer þetta, Guds Ord og Trwna rietta, medkiendu liooft og leint.

Caiphæ Loasogn leida, Lært hafa marger eñ, Hvad sem Hofdingiar beida, hiner aalykta señ, Vinskap sig villa laata, viliande raungu jaata, fordest þad froomer Meñ.

Sw er mijn Huggun sama, sem þijn var JE=su miñ, Krosseñ þa ad vill ama, Offsookn og Hor=mung stiñ, hia þiñe hægre Hende, hier þo ad Lijs=sid ende, Fagnadar Nægd eg fiñ.

Pier til Gudlostun lagde, lwgande Kieñe=

mañ,

mañ, Daudasekañ þig sagde. Sañlega Urskurd
hañ, ætte eg ad heyra helldur, hart med riettu
Sakfelldur, viist eg noog til þess vañ.

Andlegt Valld einum Roome, wrskurdar
Daudañ hier. DRotteñ i Naadar-Doome, dæmer
þvi Liised mier. Packa eg Elsku þiñe, þu keypter
Saalu miñe, Fryun og Frelse hier, Amen.



# XIV. Psalmur.

## Uñ Pioonaña Spott vid Christum.

Ton, Allfagurt Lioos oss byrtest brætt, etc.



Pter þañ Doom sem allra fyrst, Andleger dæmdu uñ HErrañ Christ, hafa þeir
þviad þa var Noott, þegar til Hvijldar
geinged skioott.

DRotteñ vor epter þreyttur þar, Prælum til
Giætslu feingeñ var, giørde ad hønum Gis og
Daar, Gudlausra Maña Flockur þrær.

Hææðung, Spott-Yrde, Hroop og Brijxl, hver
liet med ødrum gaanga a Wijxl, Hræktu og slou
HErrañ þar, hañ þo a meðañ bundeñ var. †

Siaa þu og skoda Saala mijn, Saklausa
Lambsins beisku Pijn, Hugsa vandlega uñ þad
allt, af þessu hvad þu læra skallt.

Hañ sem ad Nætur-Hvijld og Roo, hvøris

Skiepnu af Myrkunbioo, i siñe Ogna Symda Stærd, aungvañ Kost fieck a neirne Værd.

Hvijldar-Nott marga hef og þad, HErra JEsu, af þiñe Naad, Kvøl þijn Symdum mig keypte fraa, kañast eg nu vid Giæsku þa.

Nær sem eg reyne Sorg og Soott, seinast ad kiemur Daudans Nott, Nætur-Kvala sem neyddu þig, niota lætt þa JEsu mig!

Samvitsku-Sløg og Sathans Hæd, sefe JEsu þijn blessud Nææd, Ofbod Daudans og Andlaats-Pijn, aftake og myke Giæskañ þijn!

Margur (og viist þad maklegt er) mieg þessum Skalkum formæler, þo fiñast nockrer hier i Heim, ad Hegdun allre lijker þeim.

Hvad giora þeir sem hier a Jord, hafa ad Spotte DRottens Ord, lifa i Glæpum lioost til sañs, lasta og forsma Pioona hañs?

Sa sem Guds Nææd og Sañleikañ, sier, þecker, veit og skynia kañ, Kukl og Fiølkinge kyñer sier, Caiphas Prælum verre er.

Soneñ Guds ecke þecktu þeir, þvi syndga hiner laangtum meir, sem kallast vilia Christner best, Christum þo lasta allra mest.

Hræsnarar þeir sem Hrecke og Synd, hylia þo under Froomleiks Mynd, lijkiast þessum sem Lausnarañ, lomdu blindande og spiodu hañ.

Hverium sem Spott og Hædne er kiær, hañ geinaur þessum Selskap nær, Forsmaan Gudrækins Faatæks Mañs, Fyrerlitning er Skaparans.

O Vesæll Madur! ad þvi gæa, epter munkoma Tijme sa, sama hvad nidur sæder hier, sialfur æn Efa upp þu sker.

Ef hier a Jord er Hroop og Hæd, Hædne og Gudlast nidursæd, uppskored verdur eilijft Spie, Agg og Forsmæn i Helvijte.

Ætla þu ecke aumur Mañ, afkomast mune Strafflaust hañ, sem Soneñ hefur hier hædt og spiad, horfe Fadereñ uppa þad.

Hvad JEsus nu um Nætur-Skeid, Naudstaddur hier af Moñum leid, Ogudlegur um Eilijfd þa, med illum Dioflum lijda ma.

Okiendum þier, þo aumur sie, alldrei til-legg þu Hæd nie Spie, þu veitst ei hvorn þu hitter þar, helldur eñ þesser Gydingar.

Siaalfañ slær mig nu Hiartad hardt, hef eg æn Efa mikeñ Part, af soddañ Illsku æstundad, audmiuklega eg medgeing þad.

Sæd hef hef eg nidur Synda-Root, Svijvirding mijn er mørg og lioot, Uppskieru Tijmañ Ottast eg, ængrast þvi Sæleñ næsta miøg.

HErra miñ JEsu Hormung þijn, Hugguñ er bæde og Lækning mijn, Saklense vijst þu sæder hier, Sæluñar Avøxt gafstu mier.

Blood-Dropar þijner blessad Sæd, Ber þañ Avøxt sem heiter Næd, þañ sama Gud mier sialfur gaf, Sæluhialp mijn þar sprettur af.

Hæddur varstu til Heidurs mier, Hæda þijn og Slög mijn Lækning er, alldrei mun Dioful

eiga Valld, a mig ad leggia Synda-Gialld.

Eñ hier til Heidurs aptur a moot, ydrast vil eg og giora Boot, Hollds Vilia giarnañ hepta miñ, hialpe mier JEsu Kraptur þiñ, Amen.

# XV. Psalmur

## Um̃ Raadstefnu Prestaña yfer Christo.

Ton, Christ er koma fyrer Hønduni, etc.

†

MEd Jøg aarla uppe voru, Olldungar Juda señ, so til Samsundar fooru, fyrster þo Kieñe-Meñ, i Raadslag lietu leidast, liikar þad øllum vel, Hvorneñ þeir giæte greidast, Guds Syne komed i Hel.

Heimtu med Heiptar-Lundu, HErrañ vorn til sijn braadt, Ordsok þvi augva fundu, aller señ mælltu haatt, seig oß ef ertu Christur, einaste Son Guds saa, Grædareñ Giæsku lystur, gaf Andsvar þar uppaa.

Po ydur eg þad seige, ecke samt trwe þier, Andsvared mier og eige, ef eg spyr nockurs hier, Mañs Son siaed sitia, señ hiaa Guds hægre Hlid, i Skije mun eirneñ vitia, aptur med Dijrdar Sid.

Ertu Guds Son? þeir søgdu, svarade DRottieñ, Jaa, Diarfer þañ Doom aa løgdu, Dauda-Madur er sa, Uppstoodu strax ad Stundu, Strijd þeim

þeim i Hiarta brañ, Frelsarañ Fiotrum bundu, Færdu Pilato hañ. †

Hier mattu Saal mijn saña, ſo geingur þad til viiſt, Aſtundair Illvyrkiaña, Umhyggiu vantar ſijſt, ærla þeir Blunde bregda, binda faſt oll ſijn Raad, klooklega Hreckium hegda, hvor ſem þeſs feinge gaad.

Eñ þu ſem ætt ad vera, wtvaleñ DRottens Þioon, Verk hañs og Vilia giora, og varaſt þitt Saalar Tioon, Andvara aungvañ hefur, Umhyggiuliſitell ſieſt, vid Slis Heims Saalaus ſefur, Gud næde ſoddañ Breſt.

Marger upp ærla riiſa, ei gieta ſofed vært, epter Aud Heimſins hniiſa, Hollds Gagned er þeim kiært, Saaleñ i Brioofte ſofnud, ſijneſt ad meſtu daud, til allra Dygda dofnud, ſem DRottenn helſt þo baud.

Forſioonar Verk-Meñ viiſer, Vijngarde DRottens i, Fyrſt þa Dags Lioomeñ lijſer, liwſt bid eg giæte ad þvi, um ſitt Embætte hygge, ærla giord Bæneñ ſie, Idiulauſer ei ligge, i Lijkamans Giæliiſe.

Haturs Meñ HErrans vaka, hugſande ad giora Tioon, epter þvi ættu ad taka, ef ertu hañs Trigda Þioon, vilier þu vid þeim ſporna, og varaſt þeirra Haad, ærla Dags alla Morgna, vid Ord Guds halltu Raad.

Þeink nu i þijnu Hiarta, þar næſt i añañ Stad, hvar um Herrañ xied kvarta, hyggiu mattu

 þar

þar ad, Ordum hañs ecke treystu, Illgiarner Judar þeir, wr Spurning ongre leystu, æ þvi vestnudu meir.

Hvør trwer nu hart þo hoote, HErrañ Syndugum Lijd? All-fæster iña a moote, Ydrunar Svøreñ blijd, Hyrtingar hiaalpa ecke, Heimur vestnande ser, Blindleikeñ trwe eg oss blecke, bwed Straff nææ lægt er.

Viist er eg veikur ad trwa, veitstu þad JEsu best, fra Syndum seirn ad snwa, soddañ mig ængrar mest, þo framast þad eg megna, þijnum Ordum eg vil, treysta og giarnañ giegna, gief þu mier Naad þar til.

Pær næst ad þessu giæter, þad er og Lærdooms Grein, ef þu Oriette mæter, Affokun duger ei nein, hafdu þa Bidlund hiira, HErrañ mun til þijn siaa, læt Polgieds Dæmed dijra, DRottens þig hugga þa.

Mier er sem i Eyrum hlioome, Urskurdur DRottens saa, ærla a efsta Doome, upp þegar Dauder staa, Affokun ei mun stoda, Andsvor nie Spurningar, sa stendur viist i Voda, sem verdur sekur þar.

Hier er nu Kostur ad heyra, HErrañ talande i Naad, opna JEsus mitt Eyra, so ad þvi feinge gaad; Hoogvær vors Bata bijdur, blessadur þessa Tijd, añars Heims er hañ strijdur, ollum Forherdtum Lijd.

Arla Urskurdeñ legdu, æ þig Gydingar þa, JEsu

JEsu, og sekañ sögdu, selldu þig Pilato, Arla aa efsta Deige, Assokun gyllder sw, til Dauda eg dæmest eige, DRottenn þess miñest þu.

Arla Dags uppvaknadur, Ætijd eg miñest þijn JEsu miñ Hiaalpar hradur, hura þu æ til mijn, Arla aa efsta Doome, Assokun vertu mier, minstu þa Frelsareñ froome, hvad fyrer mig leidstu hier, Amen.

# XVI. Psalmur.

## Uñ Judasar Ydran.

Ton, Kongung David sem kiende, etc.

†

Judas i Gyrndar-Græde, af Gydingunum fyrst, Priatijge Peninga þæde, því sveik hañ HErrañ Christ, liost þegar lijta vañ, DRotteñ var nu til Dauda, Dæmdur og þungra Nauda, ydradest epter hañ.

Greidt i Mustered geingur, greiner so Ritning fraa, uñ Silfred sinte ei leingur, señ vill þad Prestum faa, sagde med saarum Mood, O! hvad eg giörde illa, þa yfer mig kom sw Villa, ad sveik eg saklaust Blood.

Lidsemd Prestarner lögdu, litla sem Von var ad, hardlynder honum sögdu: Hvad eigum vier med þad? Þu maatt eirn siaa uñ þig, Silfreñ uñ Goolfed grijtte, gieck þadañ, miog sier flijtte,

og heingde sialfañ. sig.

Raadstefnu Herrar hielldu, hættu þar seinast vid, fyrer Akur sialfer selldu, Silfred Leirkiera-Smid, ædur sagt uñ þad var, i Spaadooms Søgnum soñum, sæ var Vegferdar Moñum, giefeñ til Greftrunar. †

Siaa hier hvad illañ Enda, Otrygd og Svikeñ fær, Judasar Lijkar lenda, Leiks-Broodur sijnum hiaa, Andskotiñ Illsku slaar, eñ hefur Snyru snwna, snegglega þeim tilbwna, sem fara med Fals og Daar.

Otrw siñ eigeñ Herra, ætijd uñ Halsseñ sloo, eingeñ fieck af þvi verra, eñ sa Meinlausum bioo, Forræde, Fals og Viel, Judas þvi Heinging hendte, hañ Folskum til sijn bendte, eins og Achitophel.

Fiegyrndeñ Judam fellde, fyrst var hañs Adtekt sw, Guds Son Gydingum sellde, gleymde þvi Æru og Trw, so til uñ sijder gieck, kastade keyptum Aude, þa kvalde Sorg og Dauðe, Huggun alls aungva fieck.

Under-Root allra Lasta, Agyrndeñ kollud er, Froomleika fra sier kasta, Fiaar-ploogs-Meñ ærgiarner, sem freklega elska Fied, Aude med Okre safna, Andlegre Blessan hafna, eñ setia Saal i Ved.

Añad hvort er i Vonum, Audureñ fagur nu, hafnar hier, ellegar honum, hriggur burt kastar þu, þa Daudeñ þreinger ad, Agyrndeñ Otæpt, svelger

svelger, af þvi Saalena velger, i kølldum Kvala-Stad.

False og Fiegyrnd raangre, forda hier Saal mijn blijd, so mæter ei Ogn nie Angre, þa ad ser Daudans Tijd, virdt lijtels Veralldar Ploog, hvør sem sier lynda lætur, þad lienar DRottens mætur, sa hefur alls Nægta-noog.

Opt JEsus adur hafde, Aminning Judæ giørt, Hreckvijsen Hiartad vafde, hann hiellt þad einskis verdt, nu kom þar eirnenn ad, Tilsøgn hatade hreina, Huggun fieck þvi ei neina, varastu Vijte þad.

Enn hvad framleidde hann illa, adur Lijferne sitt; þesse þo var hanns Villa, verre enn allt annad hitt, ad hann Orvænting med, Saal og Lijf sette i Vanda, Synd a moot heiløgum Anda, hellda eg hier hafe skied.

J DRottne ef villtu deya, DRottne þa lifdu hier, til Ills laat þig ei teygia, Ord Guds sie kiærast þier, Sæll er sa so vid bijst, enn ef þig O-fall hender, aptur i Tijma vender, undann drag Ydrunsijst.

Brot þijn skallt bliwgur jaata, enn bid þo Gud umm Naad, af Hiarta hryggur graata, enn heilnæmm þiggia Raad, ummfram allt þeinktu þo, Son Guds bar þijnar Synder, og so þu Myskun finder, Saklaus fyrer Sekann doo.

DRotten laat mig ei dyliast, diarflega Synder vid, þo hier umm Stund meige hyliast, HErra tre-

vor þess eg bid, þa Heime fer eg fra, Orvænting ei mier grande, Ord þitt og Sañleiks Ande, Hiartad mitt hugge þa, Amen.

# XVII. Psalmur.

## Um̃ Leirpottarans Akur.

Ton, Fader a Himna Hæd, etc.

†

SO sem fyr sagt er fra, Silfur-Peninga þa, hvøriar loks Judam hrelldu, Høfud-Prestarner selldu.

Og keyptu eirn til saňs, Akur Pottmakarans, þar mæ fullt Frelse hafa, Framande Meñ ad grafa. †

Þar finst ein Þiiding fijn, þess giættu Sæla mijn, af Guds æsettu Raade, um̃ þad Zacharias spaade.

Lijkest Leirkiera Smid, Lijknsamur DRottiñ vid, sem fyr Esajas sagde, og sialfur þad riett vtlagde.

Af Leyr med Lijfsins Krapt, liet hañ Mañkyned skapt, hrein Kier til Heidurs setur, hin oñur læga metur.

DRottiñ eirn Akur æ, er honum falur sæ, miñstu hañ Myskun heiter, mæddum Lijd Huggun veiter.

JEsus eirn er sa Mañ, sem Akureñ keypte hañ

þañ, eñ hañs Blood-Dropar bliijder, Borgunar Gialldeð þiider.

Framande Foolkeð það, sem stieck ei neirn Hviisdar-Stad, erum vier Sorgum setner, af Syndugu Edle gietner.

Illskuñar Edleð vort, Utlenda hefur giort, oss, fra eiliifre Glede, i Adams Falle það skiede.

Saaleñ i Utlegð er, Æ medañ dvelst hun hier, i Holldsins Hreise naumu, halldeñ Fangelse aumu.

Daudeñ með dapre Swt, dregur uñ siider wt, hana: Pa Hreiseð brotnar, Holldeð i Jordu rotnar.

Eins og wtkastað Hræ (ef eg riett skiliað fæ) Hiaalparlaus Saal ma heita, Hviisdar kañ ei sier leita.

Hættu og Hormung þa, HErrañ miñ JEsus sa, Aund vora af Ast og Mildde, wr Utlegð kaupa villde.

Faðereñ falt það liet, Friðarstað Saalum hiet, ef Sonureñ Giallð það greiðde, sem Guðs Riettlæte beiðde.

Opnaðe Sioðeñ siñ, Sonur Guðs JEsus miñ, Hwðstriikstur kvaleñ kriindur, a Krosse til Dauda piindur.

Blood-Dropar dundu þar, diirasta Gialld það var, keyptañ Akur þvi eigum, Ohræddir deyia meigum.

Hier þegar verdur Hollð, huleð i Jardar-

Mollð, Saalen̄ hrygdarlaust hvijler, hen̄e Guds Myskun skijler.

En̄ þu skallt að þvi gaa, Akursins Greptran þa, Aumgver utan̄ þeir feingu, i Jerusalem geingu.

Christnen̄ Guds hier um̄ Heim, heiter Jerusalem, i hana in̄komast hlijtur, hvor sem Myskunar nijtur.

J hen̄e hvør eirn sa er, að JEsum trwer hier, skijrdur og alla Vega, Ydran giører Daglega.

Okvijden̄ er eg nu, af þvi eg hef þa Trw, Myskun Guds Saalu mijna, mun taka i Vøktun sijna.

Hvørnen̄ sem Hollded fer, hier þegar Lijfeð þver, JEsu, i Umsioon þin̄e, Ohætt er Saalu min̄e.

Jeg lofa Lausnaren̄ þig, sem leister wr Utlegð mig, Hvijld næ eg Nædar spakre, nu i Myskunar Akre.

Þu gafst mier Akuren̄ þin̄, hier gief eg aptur min̄, Ast þijna ä eg rijka, Syg þu mitt Hiartað lijka.

Eg gief og allan̄ þier, Æ meðan̄ toore eg hier, Avørten̄ Jðiu min̄ar, i Akre Christne þin̄ar.

Eins bið eg aumur Præll, að un̄er þu JEsu sæll, lioðnum Lijkama mijnum, Legstað i Akre þijnum.

Hveite Korn þecktu þitt, þa uppriis Hollded mitt, i Bindine Barna þin̄a, Blessan laattu mig fin̄a, Amen.

* * * * * *

18. Ps.

# XVIII. Psalmur.

## Uhm Aklogun Gydinga fyrer Pilato.

Ton, Sæler eru þeim sialfur Gud, etc.

†

NOla sem glögt eg greina vañ, med Guds Son bundeñ fara, Prestarner, so ad pijndest hañ, til Pilatum Landsdooma-ra, i Pijng-Hws iñ, þad sama Siñ, sagt er þo eingeñ kiæme, so ecke meir, saurgudust þeir, † siaa hier Hræsneñar Dæme.

Jñgaang uñ Hws-Dyr Heidingians, hielldu þeir Synd bañada, eñ saurgast a Bloode sak-lauss Mañs, sijndest þeim engvañ Skada, Hei-ms Bornum hier, Ovirding er, Aumstoddum Hiaalp ad veita, Guds Ords Forackt, Agyrnd og Pract, eingeñ Misgiord skal heita.

† Pilatus sem þad formerkt fieck, fyrst ei þeim Metnad sætte, aan Dvalar sialfur wt þvi gieck, Embættis Skylldu giætte, Sakargypt þa, vill fulla faa, Frañborna af þeirra Muñe, Daar-yrdeñ fliot, Drambseme moot, Doomareñ siña kuñe. †

Laat þier ei vera Asmaan ad, ef þu villt froomur heita, af Pilato liooft ad læra þad, sem loflegt er epter ad breyta, Raanglæted hañs, þess heidna Mañs, hallt þier Mijnkun Tvofallda, þeim mid-

ut fer eñ honum hier, Hvør vill þañ Christeñ hallda?

Alited stoort og Hefdar haatt, hrædast skyllder þu ecké, Saðleikans giæta ætijd aatt, eingeñ Kiaß-maal þig blecke, Æru-Gyrnd lioot hofmoodug Hoot, hæfer siist Yfer-Moñum, Dramblaatum þar, þu gief Andsvar, þo bygt æ Rokum søñum.

† Olldungar Juda allra fyrst, uppbaaru Sok þrefallda: Foolkemu þesse fraasnijr vijst. Fyrer-bijdur ad giallda, Keysarans Skatt, þad seigium vier satt. Siaalfur vill Kongur heita, og Christur kar, sem koma æ, Kvittun og Frid ad veita. †

Hier koma fram þau riettu Rok, Rædu og Paanka miña, þier JEsu giefeñ vár Prefolld Sok, þad kañ eg glogt ad fiña, Prefalldleg Se-kt, mig þiærde frekt, þar uñ eg klagast mætte, Prefallda Stygd, og þwnga Lygd, þu leidst med sogdum Hætte.

Fraasuwed Gude alle mitt er, Edled og Lijf sarneita, odrum þvi gief eg opt af mier, ill Dæme so ad breita, Eñ hier æ moot, med Elsku-Hoot, oll Guds Born riett þvi trwa, fraa Bolvan, Deyd, Diosle og Neyd, DRotteñ ried Lijdnum snwa.

Gude ætte eg ad greida frij, Gialld, Hlijdne og Packar-Skylldur, Raunglega hef eg halldeð þvi, hondlad sem Præll Ogylldur, Audsveipneñ þijn, fyrer ollum skijn, Astsemdar HErrañ kiære, Pu baudst, Giefed, (Gafst sialfur med) hvad Guds

og

og Keysarans være.

Saññlega hef eg hrokad mier, hærra eñ verä skyllde, Bod og Skipun mijns HErra hier, hallded i miñsta Gyllde, Kongdoom i Heim, og Heidre þeim, hafnader þu og slijder, Hatigneñ þijn, at Himnum skijn, hun mun byrtast uñ sijder.

Rægdur varstu fyrer raanga Sok, Riettlaate JEsu millde, uppa þad oll mijn Jllsku-Rok, afplaanud verda skyllde, Aklogun su, sem þolder þu, þeß bid eg HErrañ froome, sie mitt Forsvar, þa fiñst eg þar, fyrer þeim straanga Doome, Amen.



# XIX. Psalmur.

## Jaatning Christi fyrer Pilato.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu, etc.

Bydingar hofdu af Hatre fyrst, hardlega klagad JEsum Christ, sem aadur sagt er fraa, Landsdoomareñ giorde ad gaa, glogt hvad þijdde Frañburdur saa.

Aklogun fyrsta Andleg vär, uñ þad Pilatus siñte ei par, Oñur uñ Skylldu-Skatt, hañ vißi vel þeir sogdu ei satt, Soddañ Maalum þeyande hratt.

Eñ sem þeir nefndu Kongeñ Christ, kom honum þa til Hugar fyrst, hvad aadur heyrde og nam, af Judum mællt uñ Meßiam, ef mætte skie þad kiæmе nu frañ.

Pilat:

Pilati Siñe i sumum fiñst, sem um̃ Guds Dijrkun huxa miñst, Hofdingium hræsna tijdt, Undersaata Frelsed frijdt, Fiaarploogs-giarner rækia nu lijtt.

† Hyrdstiooreñ spurde HErrañ þa, hvort hañ sie Juda Kongur saa? Eñ JEsus aptur tier, Taalar þu so af sialfum þier, Eda sogdu adrer þvilijkt af mier?

Pa vard Pilati Peled kallt, þig hatar, sagde hañ, Foolked allt, hvad Illt hefur þu giort? Aptur JEsus ansar bert, er þad næsta Peinkingar verdt.

Mitt Rijke er ecke hiedañ af Heim, hardt munde añars moote þeim, strijda miñ Maktar-Her, sem nu mig selldu i Rauder þier, so nædu ecke Gydingar mier.

Pilatus aptur ansa vañ, Ertu þo Kongur sagde hañ? Jaatade JEsus þvi, Hijngad barst eg Heimeñ i, Ad herma skyllde eg Sañleikañ frij.

Hvor af Sañleikanum sialfur er, saa mijna Roddu heyrer hier, Hædnis Svor hiñ til fañ: Hvad er Sañleikur sagde hañ? So gieck burt med Urskurdeñ þañ. †

Hier mattu Saal mijn heyra fyrst, HErrañ JEsus er Kongur vijst, þo ecke ad Heimsins Hatt, soddañ vel þu athuga att, þad eikur Glede Hiartanu þratt.

Kongs-Tign þijn JEsu eilijf er, aller þiggia sijn Walld af þier, Hofdingiar hier um̃ Heim, þu lienar,

lienar, giefur, laanar þeim, Londen̄, Rijke, Metord og Seim.

Fyrer þin̄ Krapt og Frelsis-Hond, Forsvara Kongar Rijke og Lond, sem er þeim underlagt, en̄ moote Diosle og Daudans Makt, duger eingen̄ Hofdingia-Prakt.

Þu hefur sigrad Synd og Deyd, sialfan̄ Diosul og Vijtis-Neyd, harder eitt herlegt Strijd, allan̄ so þin̄ leyster Lijd, Lof sie þier um̄ eilijfa Tijd.

Andlegt þitt Rijke og eilijft er, Ord San̄leiks þvi riett stioornar hier, þin̄ Velldis-Vondur sar, Ovine slær mier alla fraa, J þeim Krapte sigra eg þar.

En̄ fyrst þitt Rijke Andlegt var, um̄ þad Heimuren̄ sinte ei par, han̄ san̄ ei Hofmood sin̄, hiaa þier JEsu HErra min̄, hatade allan̄ Goodvilia þin̄.

Undrast þvi Saal mijn ecke þarft, þo Adkast Veralldar lijder margt, þar um̄ þier þeinkia ber, Ertu nu i Utlegd hier, An̄ars Heims þitt Fodur-Land er.

San̄leika Kongsins San̄leiks Naust, sa þarf ad elska Hræsnislaust, sem er han̄s Under-Man̄, þvi Slægd og Lijge hatar han̄, Hrein-Hiortudum Mystkunar an̄.

Ef þu mijn Saal i Gude glodd, gyrnest ad heyra Kongsins Rodd, giæ[illegible] giorla hier, hvad boda DRottens Pioonar hier, þeirra Kin̄ing Rausten̄ han̄s er.

Nan̄-

Rañsaka Saal mijn Ord þad ert, ad verdur spurt hvad hefur þu giort, þa HErrañ helldur Doom, hiælpar aungvum Hræsneñ toom, hrein sie Trw i Verkunum froom.

Eñ sokum þess þu ei Saklaus ert, siælfur spyr þig, hvad hefur þu giort, um hvorn umliden Dag? Ydrun giør og græt þiñ Hag, Guds Son bid þad færa i Lag.

Allt hef eg JEsu illa giort, allt þad ad bæta þu komeñ ert, um allt þvi eg kvittur er, allt mitt Lijf skal þiona þier, þar til bid eg hiælpa þu mier, Amen.

# XX. Psalmur.

## Um Aklogun Gydinga fyrer Pilato.

Ton, Ovinañleg Borg er vor Gud, etc.

Pilatus hafde proofad nu, Pijslar-Sok JEsu giefna, Klien virdtest honum Kongs-Tign sw, þa Christur Sañleik tied nefna, Heims Sañleik heidra liest, hædde Guds Sañleik mest, Sañindeñ elska ber, Ord DRottens lættu þier, kiærast þo allra Efna.

† Jafn-Odt þa gaanga Jarleñ vied, til Juda wt ad Braade, aungva Sok þessum Mañe med, mæ eg fiña hañ sagde, Gydingar helldur hardt, HErrañ klogudu um margt, med Æde, Ogn og Dramb, eins riett sem Meinlaust Lamb, Lausn-

Lausnarenn liwsur þagde.

Hann hefur uppæst Lijdenn Lands, leinge miög viida kiende, fra Galilea og so til Sanns, umm siid-er allt hijngad vende, Pilatus hugde hier, Hrinda þeim Vanda af sier, Herodes hafde þvi, Hirdsliorn þeim Parte i, Til hanns þvi HErrann sende. †

Fyrer mig JEsu þolder þu, Piining og beiska Pijnu, Hiartad gledst þvi eg heyre nu, hroosad Sakleyse þijnu, Synden laa fast a mier, Sok fannst eingenn hiaa þier, So er Sakleyse þitt, Sannlega orded mitt, vid Maalesne tooksstu mijnu.

Logmaal DRottenns þa Hefndum hardt, Hootar mier epter Vonum, aptur minn JEsus ansar snart, Eingenn Sok finnst med honum, Sakleyse mitt til Sanns, seige eg nu orded hanns, eingenn Aklogun slioot, Orka skal neitt a moot, mijnum Pol-lyndis Pioonum.

Onytiu Hial og Mælgenn mijn, mier til Falls koma ætte, enn JEsu blessud Pogenn þijn, þad allt fyrer mig bætte, Skyllda mijn aptur er, epter ad breyta þier, þeigiande i þijdre Trw, þola vær lijd eg nu, Þorf være þess eg giætte.

Pilatus meinte Mannvits Slægd, munde Obrygdul standa, koma vill þvi med Kiænsku Nægd, Kong Herode i Vanda. Kunna þa Atferd enn, allmarger Veralldar Menn. Bid Gud og giæt þijn vel, giarn er Heimur a Viel, Saklausum Svikenn granda.

Kross-

Krofs-gaangañ JEsu þesse þijn, þar fyrer ef-
laust Skiede, so hvijlast mætte Saaleñ mijn, sætt i
eilijfre Glede, Embættis Omak laangt, opt þo
mier fiñest straangt, til Lofs og Þocknunar hier, það
vil eg giarnañ hier, lijða með liwfu Giede, Amen.

# XXI. Psalmur.

## Um Herodis Forvitne og hvijta Klæðed.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg a, etc.

†

SEgar Herodes HErrañ saa, hañ vard
miøg gladur næsta, af honum heyrt haf-
de, og hellst vill saa, hañs Asijnd lijtd
glæsta, Forviteñ morgu friette að, Fijsin
Holldsins Kapp a lagde, með bistu
Bragde, JEsus took ecke under það, við ollum
Spurningum þagde. †

Marger fiñast eñ hier uñ Heim, Herodis-lijk-
ar rietter, Guds Ord er Skemt og Gaman þeim,
sem Glens edur nijar Frietter, Forvitneñ Holld-
sins hnijser þraatt, J HErrans Leyndardooma,
með Fijsn ei frooma, aumre Skynseme ætla of-
haatt, alldrei til Skilnings koma.

Mañvits Diwp-findne og Menta-Glis, marg-
er þa vilja reina, Að Orde DRotteñs þeir giora
Gis, Gaman Lofiegt það meina, Varastu Saal
mijn Vijteñ reynd, vird þu i hædsta Gillde, þa
mikla

mikiu Millde, Alvarlega med goodre Greind, Gud vid þig tala villde.

Gud gioerer ecke ad Gamne sier, Glæpamoñum ad hoota, Kallsmælge honum og eingeñ er, ad þu meiger Myskun hlioota, Audmiwklega med allre Gæt, ættu uñ slijkt ad ræda, og fleire fræda, eñ af þier heyrast alldrei læt, Ord DRottens skuler þu hæda.

Heyre eg uñ þig miñ Herra rædt, i Hiælpræedis Orde þijnu, Allt sijnest mier þa bæed og bætt, Boled i Hiarta mijnu, i Sacramentenu sie eg þig, so sem i Lijking skiærre, med Naad mier nærre, O! hvad gledur sw Asijnd mig, Eingeñ sijñst Huggun stærre.

Herodis Fijsn var Hollòlea sw, hañ ried For- vitne giña, eñ mijn Sæla af Ast og Trw, Andvarpar þig ad siña, Lofsamleg er sw Luku-Stund, þa lijt eg þig Herrañ þijde, i þiñe Prijde, gief mier loksins hañ Fagnadar-Fund, þo fyrst ad Siñe bijde.

Pad kieñer HErrans Pøaneñ froom, þar næst i añañ Maata, hañ vill ei sijnum Helgedoom, fyrer Hunda kasta læta, DRotteñ forsmaaer Drambsamt Gied, diarflega margs þo. freiste, og frekt sier treyste, Hug stolltum nidur hrinda ried, Hoogværa Saal vidreiste.

† Herodes og hañs Hof-Foolk lijtt, uñ HErrañ ackta villde, Færde hañ i eitt Fated hvijtt, Forsmæan þad heita skyllde, Til Pilatum sydañ sendur

ur var, so komst i Fridar-Stille, Offstopeñ ille, Drambsom Ofundeñ ædur bar, Ovinskap beirra i mille. †

Hvijtt Klæded giorde Haadung hier, HErra miñ JEsu sæte, Dijrdar-Skrwda so skeinkter mier, Skijnande Guds Riettlæte, Sakleisis Merke þetta hitt, þijns Foðurs Giæskañ hreina, þa þeckte alleina, hañ sier og proofar Hiartad mitt, Hvad sem Illgiarner meina.

Heilagra Saalna Hoopur skiær, A Himnum med Skyckun frijda, Til Heidurs hier JEsu Herra kiær, Hvijtum Klædum sig skrijda, Eins hier a Jordu upp fra þvi, Eflaust i Miñing slijka, med Regsemd rijka, byrtust Snioo-hvijtum Brwning i, Blessader Einglar lijka.

Veittu JEsu þa Mykun mier, Meinleysis prijddur Klæde, Pioone eg Taal-laust med Trygd um þier, J Trw, Von og Poleñmæde, Riettlætis Skrwda Skarted hitt, skijne a Saalu miñe, þo Lijf hier liñe, Eins laattu Hollded eirneñ mitt, Afklædast Vrloovtsku siñe.

Forlijkast giordu Fiandmeñ Tveir, þa foorstu þar JEsu mille, Eg veit mier gafstu myklu meir, Mykun og Fridar-Stille, Hiaa Gude Foður so til hañs, siest eingeñ Reide leingur, nie Stigdar Streingur, Daglega mille mijn og hañs, miñ trwr Frelsare geingur.

Hvar sem Ofridur hreiser sier, Af Holldsins Beikleik bræðum, mille Christeña Maña hier, moot

moote Guds Vilia og Raadum, Sacktu þar JEsu mille mest, med þijnum Fridar Anda, og varna Vanda, Hiælpa þu so vier hugsum best, J hreinum Kiærleik ad standa, Amen.

# XXII. Psalmur.

## Um̃ Krossfestingar Hroop yfer Christo.

Ton, Fader vor sem á Himnum ert, etc.

†

NAar Herode þa Christur kom, Kallar Pilatus sniollum Room, Gydinga Lijd og lioos gaf Rok, Lausnaren̄ hefde aungva Sok, Samþickur være og sier til þess, siælfur Konguren̄ Herodes. †

San̄lega DRotten̄ Sakleysed, Sier, Elskar, bæde og styrker med, Hiarta og Mun̄ur hvørs eins Man̄s, hlijtur ad þioona Vilia han̄s, Mæls Esned gott fær goodan̄ Room, giæt þess mijn Saal, og vert þu froom.

† Sidur Gydinga sa var þa, Saka-Man̄ einn þeir skylldu fa, um̃ Paaska-Tijman̄ frá Pijslum frij, Pilatus atte ad giefna hvi, J Frelsis Min̄ing wr Egypto: † Alldrei baud Drotten̄ soddan̄ þo.

Siaa til mijn Saal ad Sidvanen̄, sijst meige villa Huga þin̄, fordast honum ad sylgia hier, fra-

mar eñ Guds Ord leyfer þier, Good Meining aungva gierer Stod, Gyllda skal meira DRottenß Bod.

† Pilatus Judum sagde so, siaeð nu glögt um̃ Koste Tvo, Eg bijd hier JEsum ydur fram̃, Eda Mordingiañ Barrabam. † Hañ meinte að yrde hellst með þvi, HErrañ fra Dauda giefeñ frij.

Þu fær nu glögt af þessu sied, þar sem DRotteñ er ecke með, J Verke, Aforme og Vilia Mañs, Verda til Einskis Raadeñ hañs, Siervitska Holldsins svikul er, so sem Pilatum skiede hier.

† Yfermeñerner allra fyrst, Oskudu að Drotteñ Krossfestist, Almwgañ so i Añañ Stad, Eggiudu mest að bidia um̃ þad, Barrabas Utlausn skyllde skie, skileñ JEsus fra Lijfe sie. †

Veralldar Dæmeñ varast skallt, vogadu ecke að giora þad allt, sem Hofdingiarner nu hafast að, þo Heimureñ kalle Lofsegt þad, ef Blindur leider Blindañ hier, Baadum þeim hætt vid Falle er.

Hvor þig eggiar a Jllverk bræð, alldrei gacku með þeim i Raad, viñ þu þad ei fyrer Metord Mañs, að missa Guds Raad og Vinskap hañs, hvorugur añars bæter Bol, þo baader rate i Stroff og Kvol.

Yfer-Moñunum er þvi vant, Undersaatarner hnijsa grant, epter þvi sem fyrer Augun ber, auðnæmast þo hid Vonda er, hvad Hofdingiarner hafast

háfast ad, hiner ætla sier leyfest þad.
Ill Epterdæme a alla Grein, eru samlijkt vid Mylnu-Stein, Vilier þu vera af Faare frials, festu hañ alldrei þier vid Hals, I Guds Otta fra þier Glæpum hrind, good vertu ødrum Fyrermynd.
Hws-Frw Pilati holl gaf Raad, hefde hañ betur ad þvi gaad: Goodar Kviñur þess giæte mest, giarnañ ástunde Dæmeñ best, Abigael fær Æru og Sæmd, Illa Jezabel verdur ræmd.
Set eg þad nu i Siñe mier, sæte JEsu rad giæta ad þier, aller hroopudu allt uñ kriing, yfer þig Dauda og Krossfesting, sem Lamb meinlausast þagder þu, þar af stendur mier Huggun trw.
Logmaalsins Bolvan bitur og sterk, Banværn Dioful og oll mijn Verk, þo hroopa vilie nu hvort fyrer sig, Hefnd og Fordæming yfer mig, Nijt eg miñ JEsu þijn i þvi, Fra þeirra Klogun verd eg frij.
Afelles-Domsins Ogna-Hroop, Ytstu-Myrkrañá Vein og Oop, Alldrei mun koma ad Eyrum mijn, Eyruñ blessud fyrst heyrdu þijn, Kall og Hæreyste kriingum sig, fra Kvøl og Angist þad frelsar mig.
Hroopar nu yfer mier Himen og Jord, Helgun, Frid, Raad og Sattargiord, hvort helldur eg geing Ut eda Iñ, I þijnu Nafne JEsu miñ, Bænar-Hroop nitt i hreinre Trw, himneskum Gude þocknast nu.

Eñ hier til Heidurs allañ Tijd, Einglar ORotteñs og Christneñ frijd, hroopar nu bæde a Himne og Jord, Hosaña, Lof og Packargiord, Amen seiger og uppa þad, Aund mijn gladvær i hvorium Stad, Amen.

# XXIII. Psalmur.

## Uñ Christi Hwdstrijking.

Ton, Ols laat þiñ Anda styrkia, etc.

†

Pilatus HErrañ hædsta, hwdstrijkia læt ur þar, Nakeñ vid Stoolpañ stædsta, streingdur þa JEsus var, Strijds Meñ med Svipum hrecktu hañ. † Saal mijn hier siar og skoda, hvad Sonur Guds fyrer þig vañ.

† Helgasta Hollded frijda, fra Hvirfle Ilium ad, ORottne vard saart ad svijda, svall allt af Benium þad, Hvor hañs Lijkama Limur og Æd, af Sarum sundurflakte, sw Hyrting miög var skiæd.

Blessadur Dreyreñ dunde, ORotteñs Lijfs Ædum wr, sem Regn þad hradast hrunde, Himens i dimu Skwr, blaanade Hollð eñ boolgnade Und, Sonur Guds saart var kvaleñ, Saklaus a þeirre Stund. †

Jeg var sem Fiotrum færdur, Fangelse þwngu i, A Aund og Samvitsku særdur, Syndeñ mijn olle

olle þvi, ſw daudleg Saalar Sootteñ hier, um̃ hvoria Ed wt ſier dreifde, Eckert fañſt heillt ꝍ mier.

Svipañ Løgmaalſins lamde, Lijf og Saal hellдur frekt, Otteñ Kvalaña kramde, komeñ var eg i Sekt, banvænlegt orded mitt var Mein, Hiartad af Hrigdum ſtunde, hvorge fieckſt Lækning nein.

Saarſtu þa JEſu ſæle, Saar mijn Obærelig, til Lauſnar þijnum Præle, þvi lietſtu binda þig, gieckſt ſo under þa Grimdar Kvøl, ad eg kvittadur yrde, vid eilijft Hrygdar-Bøl.

Siwkdoom miñ ſiaalfur barſtu, ſo vard eg heill med þvi, Hormungum hladeñ varſtu, fraa Hrigdum er eg nu frij, Hegning þu fieckſt ſo hefde eg Frid, Beniar þijnar mier bættu, Boot ſw þar ꝍtte vid.

Hiartad vill Hrædſlañ kreinkia, med hørdum Sorgar-Stijng, þegar eg giøre ad þeinkia, um̃ þijna Hwdſtrijking, Avi eg gaf þar Efne til, þu eirn gallſt Prisoſku miñar, þeſs nu eg ydraſt vil.

Pvi fell eg nu til Foota, Frelſareñ JEſu hier, laattu mig Nafns þijns niota, Naad og Vægd ſijndu mier, Eg ſkal med Hlijdne heidra þig, nu og um̃ Eilijfd alla, Pa huggar þu HErra mig.

Gledſtu mijn Saal, þig grædde, Guds Sonar heilagt Blood, þe Synd og Sorgeñ mædde, ſiaa hier er Lækning good, Naad fyrer Reide nu er vijs, Brot Prælſins HErrañ bætte, bar þvi ſijns Fødurs Hrijs.

Skoda þu Skylldu þijna, skijrlega Saal mijn nu, Sonureñ sig liet pijna, so læknud yrder þu, Heilbrigd þioona þu honum riett, med Trw, Hollustu og Hlijdne, Haf Gaat a þiñe Stiett.

Pockneſt honum ad þiaka, þitt Holld Orkumst um med, Pijdlega þvi skallt taka, Poleñmoodt Hiarta-Gied, Aſier DRotteñ og elſkar beſt, Lausnara ad lijkiast þijnum, Lof er þier allra meſt.

Eckert maa sooma ſijdur, ſijkartur Prælleñ er, þa HErrañ Harmkvæle lijdur, haf ſlijkt i Miñe þier, Hrygdar-Mynd hañs er Heidur þiñ, laat mig þad læra og hallda, Liwfaste Jeſu miñ, Amen.

# XXIV. Pſalmur.

## Um Purpurañ og Þyrne Koronuna.

Toon, Til þijn Heilage HErra Gud, etc.

†

Myrkiar JEſum epter þad, iñ i Pijngs Hwſed leiddu, afklæddu fyrſt, og ſlioott þaangad, Foolked allt koma beiddu, Purpura-klædis forna Flijk, (ſaaſt maatte varla Haadunar ſlijk) yfer hañs Beniar breiddu. †

Helgunar Klæded hafde eg miſt, hlaut þvi Nakeñ ad ſtanda, Adam olle þvi allra fyrſt, Arf liet mier þañ til Handa, Syndaña Flijk eg færdeſt i, Forſmaan og Mynkun hlauſt af þvi, med hvorskins Haaſka og Vanda.

Burt took JEsus þa Blygdun hier, berañ þvi liet sig piina, Riettlætes Klædnadkeypte mier, kañ sa fagurt ad skiina, Athvarf mitt jafnañ er til fañs, under Purpura Kaapu hañs: Par hyl eg Misgiörd miina.

† Pyrne Koronu þwngre þeir, þreingdu ad HErrans Eñe, Baal-Ellde heitum brendu meir, Broddar sviidande i heñe, Augun hañs bæde og Andlit med, allt af Bloodenu fyllast ried, sliikt trwe eg Kvala kieñe. †

Fyrer Ohliidne Adams var, öll Jordeñ liist i Bañe, Avoxt þvi sliikañ af sier bar, Ord Guds trwe eg þad sañe, þessum Bölvunar Pyrne-Krans, þreingt var ad Höfde Lausnarans, til Hugg-unar hrelldum Mañe.

Eñ JEsu Hliidne aptur hier, allre Jord Blessun færer, heilnæmañ Avoxt hun þvi ber, hvoria Skiepnu vel nærer. Fyrer Giæskuñar Giorning þañ, Gøfge, lofe og priise hañ, hvad sig uñ Heimeñ hrærer.

Bölvan mier yfer Höfde hieck, hootud i Log-maals Bræde, eñ JEsus hana under gieck, so aptur eg Blessan næde. Gud miñ Koronu gaf mier þar, Giædsku og Diirdar eiliifrar, hier og a Himnum bæde.

† Reyr-Staf honum i Hond med Spie, Hirdstioorans Prælar feingu, Heilsudu Konge og krupu a Knie, Kalls Ord a vygst þa geinau, Reirnum hroktu uñ Hofud hañs, hræktu i And-

lit Lausnarans, med Kvala Kappe straungu. †

Pa þu geingur i Guds Hws iñ, giæt þess vel Saal miin frooma, hvad þu þar ecke HErrañ þiñ, med Hegdun Liikamans tooma, beigdu Holldsins og Hiartans Knie, heit Bæn þijn Ástar Kvedia sie, Hræsneñ mun siist þier sooma.

Siaalfs mijns Verdskulldan sie eg hier, sodd-añ ætte eg ad liida, uñ Eilijfd þa sem alldrei þver, med Ogn og saarum Kviida, hefde mier ecke Hor-mung þijn, hiaalpad JEsu fra þeirre Pijn. Blessi-ad sie Nafn þitt bliida.

Aull þijn Læging er Upphefd mijñ, Ástkiære JEsu millde, Heidur er mier ad Hadung þijn, hvar sem mier nidra villde, Hoggeñ sem leidstu hressa mig, a Himnum verd eg nu fyrer þig, me-teñ i mesta Gillde.

Medañ Lijfs Æd er i mier heit, eg skal þig DRotteñ prijsa, af Hiartans Grunñe i hvorium Reit, Heidur þijns Nafns auglijsa, Feigeñ vil eg i Heime hier, bliida og fylgia i ollu þier, Laat mier þijna Lidsemd vijsa, Amen.

# XXV. Psalmur.

## Uñ Utkeidslu Christi wr Pijng Hwsenu.

Ton, Konung David sem kieñde, etc.

†

Ands-Doomareñ þa leidde, Lausnarañ wt med sier, Gydingum Andsvor greidde, glögglega og so tier: Pier siaed þeñañ hier, Sañlega ydur eg seige, Søk fiñst med honum eige, sw Dauda-Dooms verd er.

Pa gieck JEsus wt þañeñ, Þyrne og Purpurabar, sagde: Siaed hier Mañeñ, sialfur Doomareñ þar, Gydingar gaasu Svar, Burt med hañ, so þeir seigia, saa skal aa Krosse deyia. Ost þeirra ein sw var.

Ord og Affsokun gillte, eingeñ i þessum Stad, Heipteñ so Hugañ fyllte, Hiartad vard forblindad, siidast þeir søgdu þad, Líooslega Lijfs-Straffs krefde, Logmaaled, þvi hañ hefde, giordt sig Guds Syne ad. †

Riett Løg sem ritud fiñast, Raangfærdu Judar hier, ofs ber þar aa ad miñast, Jll Dæme fordunst vier, Doomureñ DRottens er, hiñ þu med Heiptum klage, og hreinañ Sañleik aflage, Siaae Valldsmeñ ad sier.

Pa eg heyre miñ HErra, hvørsu þu kvaleñ vart, giørvoll vill Gledeñ þverra, galldstu mijn næsta hardt, þvi eg braut myked og margt, Eñ þa mier Gudspioll greina, glögt þitt Sakleysed hreina, Hiartad fær Huggun snart.

Athuga Saal mijn ættum, Utgaungu DRottens hier, so vid riett miñast mættum, hvad Myskun hañs veitte þier, hyggium ad hañ wt ber, Pyrne

ne Koronu þietta, þar med Purpuran lietta, Blaar og Bloodugur er.

Med Bloodskulld og Bølvan straanga, Beiskum reird Kvala Hnwt, aattum vid greidt ad ganga, fraa Guds Naad rekeñ wt, hrakeñ i Heliar Swt, J klædd Forsmaanar Flijkum, fra skwfud DRottne rijkum, Nakeñ og Nidurlwt.

O! Synd, O! Syndeñ arga, hvad Jllt kiemur af þier? O! hvørsu Meinsemd marga, ma DRotteñ lijda hier? Þitt Gialld allt þetta er, blindad Holld þig ei þeckte, þegar þijn Flærd mig bleckte: JEsus Myskune mier!

Eñ med þvi wt var leiddur, Alsærdur Lausnareñ, giørdest mier Vegur greiddur, i Guds Naadar Rijke iñ, og eilijft Lijf añad Siñ, Bloodskulld og Bølvan mijna, burt took Guds Sonar Pijna, Dijrd sie þier DRotteñ miñ.

Ut geing eg ætijd sijdañ, i Trauste Frelsarans, under Blæ Himens blijdañ, blessadur vijst til Sañs, nu fyrer Nafned hañs, wtbored Lijk mitt lided, legst og hvijlest i Frijde, Sæl fer til Sælu Rañs.

Dijrdar Koronu dijra, DRotteñ giefur mier þa, Riettlætis Skrwdañ skijra, skal eg og eirneñ faa, Upprisu Deigenum a, hædstum Heidre til reiddur, af heilögum Einglum leiddur, i Sælu þeim skaalfum hiaa.

So munu Guds Einglar segia: Siaaed nu þeñañ Mañ, hvørn allskins Synd ried beygia, aad-

ur i Heimsins Rañ, opt var þa hrelldur hañ, fyrer Blood Lambsins blijda, hwen er nu ad strijda, og sælañ Sigur vañ.

Þa muntu Saal mijn svara, sijngiande fögrum Ton, Lof sie mijnum Lausnara, Lamb Guds a hædsta Thron, Sigur gaf sijnum Pioon, um blessadar Himna Haller, honum seigium vier aller, Heidur med sætum Soon.

Son Guds ertu med Sañe, Sonur Guds JEsu miñ, Son Guds Syndugum Mañe, Sonar Arf skeinkter þiñ, Son Guds ei'n Eingieteñ, Syne Guds sijnge gladur, sier hvør lifande Madur, Heidur i hvørt eitt Siñ, Amen.

# XXVI. Psalmur.

## Samtal Pilati vid Christinu.

Ton, Hædste Gud Herra millde, etc.

†

Þegar þa um Guds Son heyrde, heideñ Lands-Doomare, hañ spyr (þvi hrædast giørde) hvadañ vor DRotteñ sie, eñ JEsus þijdur þaade, þad og vel makleat var, Pilatus braadt ad Bragde, bisteft og aptur sagde, villt þu ei veita Svar?

Mijn er þad mattu jaata, Makteñ so Tignarlig, jeg ma vel lausañ laata, lijka Krossfesta þig. JEsus svarar og seiger: Sijst attu Walld ....

er,

er, Ef hier være had eige, ad oſañ giefed ſo meiger, Heidre heim hallda hier.

Sa hefur Synd eñ meire, er ſelde mig hier at Hönd: Pilatus hygg eg þad heyre, hañ grundar Maaleñ vond, giörde ſtrax Grida ad leita, gaaſir Preſtarner Ans: Vægd ef þeſſum villt veita, viſſt maattu ecke heita, Kiær Vinur Keyſarans. †

Heidingiar hallda giördu, Hia-Guder þeirra ſeñ, Börn ættu aleñ a Jördu, eins og Holldleger Meñ, hañ Ottaſt hier ef være, HErrañ Godaña Kyns, hugde þvi hellſt ad bære, Hyggelega framſære, Rañſookn Riettdæmeſins.

Skwrgod ſijn Heidner hielldu, hafande i meſtu Akt, Forgiefens Hug ſiñ hrelldu, hræddver vid þeirra Makt. O! hvorſu framar ætte, eirn ſierhvør Chriſteñ Mañ, ottaſt ORottens Almætte, med Aſt og Blygdunar Hætte, ſem Stolltum ſteypa kañ.

Af ſtoorre Makt ſig ried ſtæra, ſtolltur Pilatus hier, Riett Maal til Raangs ad færa, Reiknade Leyfelegt ſier, kañ vera margañ meige, Meining ſw villa hraatt, þo Laugeñ brioote og beyge, bañad ſie heim bad eige, fyrſt Valld þeir hafa haatt.

Gud er ſa Vollden giefur, giæte þeſs ædre Stiett, ſitt Liene hvør eirn hefur, hier af ORottne tilſett, hañ liet þig Heidurhliota, Heidraſt þvi af þier vill, Virdingar vel maatt niota, eñ varaſt Drambſeme liota, Roog og Raanginden Ill.

Yfervalld eirn Gud ſende, Undermeñ giæte þar ad,

ad, Sverd D Rottens hefur i Hende, heidra sku-
lum vier þad, hlijduger Fride hallda, Hlijfd og
Forsvare naa, Yverlyndis Prloosskañ kallda,
þwnglegre Hefndar-Giallda, ad vijsu sier vænta
maa

Eins sem hvor eirn misbrijtur, epter þvi straff-
ast hañ, hardare Hefnder hlijtur, hiñ sa meira til
vañ: Þeim mun ei Plaagañ þverra, sem þrioosskast
i Synda Root, sa Pioon a Von hins verra, sem
Vilia þecker sijns Herra, þo giører þvert a moot.

Vardveite Vallds-Meñ alla, Vor Gud i siñe
Stiett, so varest i Vondsku ad falla, vel stunde
Log og Riett, hiner i Hlijdne stande, hvør so sem
skylldugt er, hrein Trw og helgur Vande, halld-
est i voru Lande, Amen þess Oskum vier, Amen.



# XXVII. Psalmur.

## Pilati Samtal vid Gydinga a Doom-Stoolnum.

Ton, Skapareñ Stiarna HErra hreiñ, etc.



Pilatus heyrde hootad var, hønum Key-
sarans Reide þar, wtleidde JEsum aftad
Siñ, uppsest þegar a Doom-Stooliñ.

Gydingum sijdan sagde hier, sieed þar ydar
Kongur er, þeir bøudu, tak þeñan burt fra oss,
Braadlega læt hañ deyia a Kross.

Skal eg Krossfesta Kong ydvarn, kallar Pilatus Hædnis giarn, Aungvañ Kong seigia þeir aptur hier, utañ Keysarañ høfum vier.

Gudspialls Historiañ hermer fraa, heite sa Stadur Gabbatha, haava Stein Stræte þijder þad, þar maattu Saal mijn giæta ad.

Vei þeim Doomara er veit og sier, vijst hvad um̃ Maaled riettast er, viñur þad þo fyrer Vinskap Mañs, ad vijkia af Gøtu Sañleikans.

Pilatus Keysarans hræddest Heipt, ef honum yrde vr Volldum steipt, þetta sem hellst nu varast vañ, vard þo ad koma yfer hañ.

O vei þeim! sem ad Oriett Løg, um̃gaungast og þau tijdka miøg, Sañleiknum meta sitt Gagn meir, Svijvirding DRottne giøra þeir.

Huga snij eg og Maale mijn, miñ goode JEsu eñ til þijn, Pilatus Kong þig kallar hier, Krossfesting Judar Oska þier.

Vijst ertu JEsu Kongur klaar, Kongur Dijrdar um̃ Eilijf Ar, Kongur Einglaña, Kongur vor, Kongur Almættis Tignar stoor.

Po stoodstu bundeñ þar fyrer Doom, þo leidstu, Hroop og Kvala-Room, afseigia giørdu aller þig, undrar stoorlega þetta mig.

O JEsu þad er Jaatning mijn! Jeg mun um̃ sijder nioota þijn, þegar þu Dijrdar DRotteñ miñ, Doomstool i Skyum setur þiñ.

Frelsadur kiem eg þa fyrer þiñ Doom, Fagnadarsælañ heyre eg Room. J þijnu Nafne Ut-

valder,

valder, Utvalen̄ kalla mig hia sier.

Kong min̄ JEsu eg kalla þig, kalla þu Præl þin̄ aptur mig, Herra Tign aungva ad Heimsins Sid, helld eg þar meiga jafnast vid.

Hafva Stein-Stræted Heimsins sleipt, hefur mier opt i Vanda steypt, þangad liet JEsus leida sig, so Lyknen̄ han̄s kome yfer mig.

JEsu þijn Christne kijs þig nu, Kongur hen̄ar eirn heiter þu, Stjoorn þijn hen̄e so hallde vid, ad Himneskum nææ Dijrdar-Frid, Amen.

## XXVIII. Psalmur.

### Um̄ Pilati Handa-Þvott og Doom.

Ton, Nu bid eg Gud þu Næder mig, etc.

†

PIlatus sat ad son̄u þar, sijn Raad mætti ei gillda par, Upphlaup sier brœed hræddest han̄, hugde ad stilla Vanda þan̄, Fullnægia villde Foolksins Boon, sat skyllde JEsus Daudans-Tioon, San̄leika aungvum synte meir, so dæmde allt sem beiddu þeir.

Hendur i Vatne þa nam þvo, þar næst vid Juda mællte so, siaalfer um̄ ydur siaaed þier, E... laus vid Riettlaatt Blood eg er, allur Almuge... uppa þad, Andsvarar greidt i þessum Stad: Han̄s Blood (þo nu han̄ kvelie Kross) kome yfer Bor... en̄ vor og oss. †

Pilatus hafde proofad þar, Pijslar-Sok
DRottens eingen var; fyrer og epter eins ried
hañ, Urskurda JEsum saklausañ, þo mootSam-
vitsku siñe þvert, siælfur viliande dæmde hert.
Gud giefe ad Yfervollden vor, Varest þaug
Dæme Glæpa stoor.

Hvad margur nu i Heimenum, hier fyrer last-
ar Pilatum, sem þo elskar og jdkar mest, Athæse
hañs og Dæmeñ vest? Otteñ i Doome opt fær
Sess, Yfer-Herrarner niota þess, Almwgans
Hrosun olle þvi, Illgiarner Skalkar hlaupa
frij.

Abata-Von og Vina-Hoot, Verkeñ dylia þo
sieu lioot, lijka kiemur su Fordylld fram, sem for-
svarad gietur Barrabam, giefst þa Rauneñ hvad
gillda skal, Gull-Twngañ sw sem Achan stal, ma-
kie og þigge Mwtur hiñ, meir eñ Pilatus þetta
Siñ.

Eg spyr, hvad velldur Ódygd flest, eykst nær
Daglega og fiolgar mest? Umsiwonarleyse er
Orsok hædst, Eigeñ Gagnsmuner þessu næst,
Myskun sem heiter Skalka-Skiool, skignest ept-
er uñ faxnijtt Hool, Otteñ Logeñ svo þvijngar
þraatt, þora þaug ecke ad lijta hatt.

Fyrer Foolkenu þegar þar, þvode Pilatus
Hendurnar, fyrer Gude sier hañ giorde Grun,
gillda munde su Afsokun, varastu Madur Heim-
sku hañs, hier þo þu viller Siooner Mañs, Al-
mattug DRottens Augsijn skiær, Allt þitt Hiar-
ta rañsakad fær. Villtu,

Villtu þig þvo, þa þvo þu hreint, Vel Hiartans bæde ljoost og leynt, ein Laug er þar til Edla good, Vorunar Tear og JEsu Blood, graat þijna Synd, eñ set þitt Traust, a Sonar Guds Pijnu Efalaust, lát af Illu, eñ jðka Gott, allañ varastu Hræsnis Þvott.

Bloods Hefnd a sig og Born siin med, blindadur Lijdur hroopa ried, Efldest so þesse Oskeñ kolld, eñ i Dag bera þeir heñar Giolld. Athuga giarn og Ordvar siert, einkum þegar þu reidur ert, Formæling illañ siñur Stad, fast meiga Dæmeñ uppa þad.

DRotteñ JEsu sem dæmdur vart, Doomare kiemur þu aptur snart, Dooms-Meñ lattu til Dijrdar þier, Doomana vanda riett sem ber. Þvo þu vor Hiortu og Hendur med, hrein Trw vardveite roosamt Gied, þitt Blood flecklaust sem floode a Kross, frelse þad Borneñ vor og oss; AMEN.

## XXIX. Psalmur.

### Uñ Barrabas Frelse.

Ton, Eins og sitt Barn, etc.

†

SEllde Pilatus saklausañ, Son Guds til Krossens Dauda, Upphlaups Madur sa Vijg eitt vañ, þa Frelse fañ, fieck Lijf eñ miste Nauda.

J Myrkva-Stofu sat bundeñ beid, Barrabas arw eg hañ heite. † Ma hier siñast ein Merking greid, uñ Mañkyns Neyd, miøg skijr ad ollu leite.

Barrabas fra eg Fødurs Nid, flester lærder Meñ þijde, Adam lijkest þar Eklaust vid, og allt hañs Lid, sem ætfiell Daudans Kviide.

Upphlaups Madur hañ ordeñ var, þa Epled i Muñ sier leidde, sialfs Guds Bodorde syñte ei par, og sijdañ þar, sig og allt Mañkyn deydde.

J Diofuls Fiotrum fastur lær, fangeñ til eilijfs Dauda, aller hañs Nidiar wt i fræ, med Eymd og Præ, ættu Von Kvala og Nauda.

Hier þa JEsu var Heled kalldt, af Heidnu dæmt Yfervallde, fieck Adam aptur Frelsed snialt, og Foolk hañs allt, sem fagnar þvi Lausnar Giallde.

Nu fyrst eg Adams Nidie er, nær mier geingur þad Dæme, Saal mijn set slijkt fyrer Siooner þier, og siædu hier, sañferdugt Lærdooms Næme.

O hvad opt hef eg aumur giort, Uppreiist moot DRottens Anda! Daglega þvi hañs Bodord bert, so braut eg hvert, mier var þo i Hlijdne ad standa.

Mun og ecke vid Mañdrap frij, mijna Saal þratt eg deydde, Jll Dæmeñ gaf ust af mier nij, og Nauder i, Naungañ þar med leidde.

Ofrægur er eg ordeñ mest, Allar Skiepnur þad saña, Farædum eckert Forsvar siest, Fangelsed vest, fyrer þvi hlijt eg kaña.

J Myrkva-Stofu eg bundeñ bijd, Bolvan Logmaals mig hræder, dapurt naalægest Daudans Strijd, og Doomsins Tijd, Daglega Sorgeñ mæder.

Heyre eg nu þañ Hiaalpar-Room, ad hafer þu JEsu millde, fyrer mig lided Lijflaats-Doom, þijn Lijkneñ froom, lausañ mig kaupa villde.

Sw'heilaga Aflausn, Hrygd og Swt, af Hiarta mijnu greider, Syndaña leyser Hleckia-Hnwt, og hier næst wt, wr hordu Faangelse leider.

Hvad Dauda saknæmt sæst a mier, (soddañ Mystun eg þecke) Til Dauda allt var dæmt aa þier, miñ DRotteñ hier, Doomenum kvijde eg ecke.

Mitt Lijf og Saal þig lofar nu, leyst fraa Daudans Faangelse, eg life eda deyn, þad er mijn Trw, Obrygdul sw, i þijnu JEsu Frelse.

Himneskre Paaska Hatijd aa, hef eg nu þess ad bijda, Myrkva-Stofuñe frelstur fraa, eg fagna þa, i Flocke Utvalldra Lijda.

So er nu Barrabas ordeñ frij, Adam og eg hañs Nidie, hvar Christeñ Saala Heime i, vorn HErra þvi, Heidre, Lofe Tilbidie, Amen.



# XXX. Psalmur.

## Um Christi Krossburd.

Ton, Twnga mijn af Hiarta hlioodi, etc.

†

Striids Meñ Christ wr Kaapu færdu, og klæddu hañ siinum Bwning i, sollnar Under saart vid hrærdu, þar svidu og blædu uppa nij, a blessudu siinu Bake særdu, hañ bar siñ Kross og mæddest þvi.

Skiede so a samre Stundu, Simon nockurn bar þar ad, Framande Mañ; er gieck uñ Grundu, gripu Judar þañ i Stad, Krossenum a hañs Herdar hrundu, hañ gieckst naudugur under þad. †

Peir sem (Seal mijn) Synder drija, Samvitskuñe þvert a mot, Under DRottens Endurnija, ef ecke giora a Lostum Boot, vid skulum fra þeim Flocke fiija, og Fyrergiefningar bidia af Root.

Uppa Heimsins Ohacklæte, er hier Dæme lioost til Sañs, margañ Lætnade Son Guds sæte, siwkañ medal Almwgans, nu var ei neirn sem Boled bæte, og bære med honum Krossen hañs.

Simon bæde og Syne hañs bada, siaulf hier nefner Historiañ: Gudhræddur skal niota Nada, og Nidiar marger epter hañ, Myskunsemd vid Meñ saurada, miñast Gud og launa kañ.

Framande Madur mætte Christe, med honum bar hañs þwnga Kross, hier ma siña hvorn þad lister, hreina Pijding uppa oss, Gydinga Foolk þa Guds Nad miste, gafst Heidingium Dijrdar Hnoss.

Synda=

Synda-Under ijfast mijnar, Opt æ hverre Stundu nær, Samvitskunar Sorg ei dvijnar, Svida-Meined illa grær, Blessadar JEsu Benjar þijnar, Bid eg mijke og lække þær.

Þesse Krossens þwnga Byrde, þier var DRottenn logd a Bak, so Fyrermindan fylld sw yrde, þa Foornar-Videnn bar Isaach, Sa þinn Gaangurenn Sorgar-styrde, af Saalu minne took Omak.

Minnest eg a Pijnung þijna, þig sw mædde Byrdenn strijd, sannlega fyrer Saalu mijna, sodd-ann leid þijn Giæskann blijd, vegna þess mier virdstu ad sijna, Vorkunseme nær eg lijd.

Holld er tregt minn HErra millde, i Hormungunum ad fylgia hier, þo eg feigenn feta villde, Footspor þijn sem skylldugt er, Viljenn minn er i veiku Gyllde, þu verdur þvi ad hialpa mier.

Elsku-Gied so þitt eg þecke, þiadum villtu sijna Lid, lattu mig DRottenn einann ecke, i Anaud minne þess eg bid, Nafned mitt, þo Nauder hnecke, Naad þijn blessud kannest vid.

Komer þu under Krossenn strannga, Christenn Saala, giæt þess hier, ef Holldeð tekur ad mogla og mannga, minstu hvar þijn Skylldann er, lattu sem þu sierer gannga, sialfann JEsum undann hier.

Under Krosse Illvyrkianna, alldrei hier þig sinna latt, varastu Glæpe vondra Manna, a Verkum þijnum haf þu Gaat, Ydka Bæn og Ydran sanna, Elska giarnann Hoof og Maat.

Haf þu JEsu mig i Miñe, Mædu og Daudans Hrelling stytt, Børn mijn hiaa þier Forsioon fiñe, fra þeim øllum Vanda hritt, lættu standa a Lijfs-Book þiñe, lijka þeirra Nøfn sem mitt, AMEN.



# XXXI. Psalmur.

## Predikun Christi fyrer Kviñunum.

Ton, Sa frials vid Løgmaal fæddur er, etc.

†

Folked sem DRottne fylgde wt, fyllest margt Angre hørdu, Kviñurnar grietu sart med Swt, sem hañs Kvøl aumka giørdu.

Snere til þeirra Son Guds sier, sagde þa Herrañ mætur: Grææte þier ecke yfer mier, O! Jerusalems Dætur.

Sonu ydar og eigeñ Synd, ecklaust þier grææta meiged, nalgast sw Tijd sem nu er geimd, nær þier harmande seiged:

Sæl nu Obyriañ Barnlaus er, og Briost þau eí sogeñ voru, hrinie yfer oss Haalsarner, Hæder og Fiølleñ stooru.

Ef giørt er so vid þad græna Trie, gieta hvør til þess næde, hvad hid þornada þa mun skie? † þad trw eg JEsus ræde.

O! hvad Veralldar Virding er, vollt og svikul

kul ad reyna, giæt þeß, mjn Sæl, og siaɖu hier' saūproofad Dæmed eina.

A Palma Suñudag sialfur iñ, Son Guds i Borg nam rijda, Ast-Viner hañs þad sama siñ, sungu Lof æn alls Kvijda.

Fæm Dogum sijdar sialfur wt, færdur med Kroß nam gænga, þad hlutu hañs Viner ad siæ med Swt, Sorg Hiartans bæru strænga.

Hafe so vered vollt og flæ, Verslldeñ HErra sijnum, hvørs mæ siet vænta Prælleñ þa? Þeß giæt i Huga þijnum.

Þeim sem hun bijdur Blijdleik siñ, hweñ er Sorgeñ mesta, hirdtu því alldrei Huga þiñ, vid hana mijn Sæl ad festa.

Sañlega skylldugt seige eg mier, særa þa Kvøl ad græta, sem DRotteñ JEsu þwngt ad þier, Þreingde i allañ Mæta.

Samt er þier ecke þient med því, þott eg þig aumka villde, Eilijfa Hætign ert þu i, upphafeñ JEsu millde.

Þar mæ nu helldur aukast af, Angur Samvitsku miñar, Orsok eg til og Efne gaf, allrar Hørmungar þiñar.

Ervide hefe eg auked hier, ofþwngt med Syndum mijnum, Glæpaña sem eg giørde hier, gallstu æ Hollde þijnu.

Hrædest eg mier sie huleñ geimd, sw Hefndar Pijnañ strænga, því eg vañ til ad eilijf Eymd, yfer mig skyllde gænga.

Eñ þo gled eg mig aptur vid, Avexteñ Kvala þiña, þar af ødlast eg Frelse og Frid, og Forlaat Synda miña.

Angisteñ saar og Sorgar-Laat, Er Sæal hellst þiaadu mijna, snijst i Føgnud og Feigeñ-Graat, fyrer þa Myskun þijna.

Bid eg nu JEsu blijde þig, sem Boot mier giørder viña, Laat aungvañ gialldu epter mig, Illsku nie Synda miña, Amen.

# XXVII. Psálmur.

## Uñ Græna og Visna Tried.

Ton, Nu kom Heideña Hiaalpar Raad, etc.

†

Reiner JEsus uñ Græna Tried, gietur hiñs Visna eirneñ med. † Vid skulum, Saal mijn, skoda aa nij, skijrañ Lærdoom aa Maale þvi.

Frioofgunar Eykeñ vokvud væn, vel bloomgud stood med Laufeñ græn, þegar æ Jordu saast til sañs, Son Guds J klæddur Hollde Mañs.

Lijssins Avexte liwsa bar, Læknade JEsus Sootternar, Fraa Dioste leyste og Daudans Pijn, Daufum gaf Heyrn, eñ Blindum Sijn.

Af hvørre Grein draup Hunang sætt, Hiaalpræðis Kieñing fieck hañ rædt, oll hañs Umgeingne aastwdleg, aungraadar Saaler gladde mieg.

Guds

Gude var þeckt þad grœna Tried, glødduſt Himnar og Jorden̄ med, i han̄s Fœding þad vitnaſt van̄, Og vid Jordan, þa ſkijrdeſt han̄.

Riettlætis allan̄ Avoxt bar, In̄ til Kroſs-Dauda hlijden̄ var, Saklauſa Lambed Son Guds eirn,, Af Synd og Lijtum klaar og hreirn.

Po mætte ei þad Edla-Trie, Angurlauſt vera a Jordun̄e, Guds Reide-Stormur geiſa van̄, Gieck þvi Reſſingen̄ yfer han̄.

Ef þu ſpyr ad, Hvad vallda van̄, villde Gud læta Saklauſan̄, Sonen̄ komaſt i Sorger þær, ſem honum var þo Hiarta kiær?

Pu ſkallt vita ad viſnad Trie, Var Man̄kyn allt a Jordun̄e, Oſan̄ ad Rootum uppþornad, Avoxt Ranglætis færde þad.

Skadſemdar-Tried ſem ſkiem̄de Jord, ſkipade DRottens Reide hørd, upphøggva, ſo þad ecke þar, Akrenum ſie til Spillingar.

Vor JEſus Møn̄um Vægdar bad, vin̄aſt mætte ei ad ſeingeſt þad, utan̄ han̄ tæke uppa ſig, Illverka Giollden̄ hryggelig.

HErran̄ Jklæddeſt Hollde þa, hijngad kom til vor Jordu a, Viſnadre Eyk gafſt Vokvan good, þa vard vøthellt han̄s dijra Blood.

Saklaus þvi leid han̄ Sorg og Haad, Syndugt Man̄kyn ſo feinge Raad, hid grœna Tried var hraked og hriſt, hier-af þad viſna bloomgadiſt.

Guds Dijrdar Sæte ſitt Hollð i, Sonuren̄ mætte ei heſia þvi, Fyrr en̄ i Heime harda Neyd, hafde

hafde þolad og Krossens Deyd.

O hvad Mañs Holld er Heimsku fyllt, hrigge-lega wr Maata villt, viliande i Løstum liggur þad, leikur sier allskins Glæpum ad.

Marger ætla fyrst ecke strax, aafellur Hefndeñ sama Dags, DRotteñ þa alldrei mune meir, miñast aa þad sem giørdu þeir.

Pvi gooda Trienu þyrmt var siist, þurrum Fausk mun þa Baaled viist, Hafe Fadereñ hyrt siñ Son, Hefndar mun Prælleñ eiga Von.

Ef nu Guds Milldeñ aastwdlig, O hegnda Saal miin lijdur þig, hañs Poleñmæde halltu hier, Hiaalprædis Medal giefed þier.

Visnad Trie eg ad viisu er, Vægdu Riettlæt-is HErrañ mier, Giæskuñar Eikeñ græn og fijn, geimdu mig under Skugga þijn.

Von er ad mier sie Mootkast viist, mun eg um-fliia Daudañ siist, Hollded maa ei fyrer utañ Kross, Eignast aa Himnum Dijrdar Hnoss.

Tæpte eg mijnum Trwar-Staf, aa Tried sem drijpur Hunaang af, Sioon Hiartans øllu Ang-re i, upplijsest, nær eg smacka af þvi.

Pegar mier gaanga Prauter nær, þier snw þu til miin JEsu kiær, Hiartad hresse og Huga miñ, Himneskur Naadar Vøkve þiñ, Amen.



33. Ps.

# XXXIII. Psalmur.

## Um̃ Christi Krossfestlng.

Ton, Konung David sem kiende, etc.

†

KOm loks med Krossens Byrde, Christur i Hausastad, Orþiaadur fra eg hañ hyrde, Edik Galle blandad, honum þeir hielldu ad, DRottenñ vor Dijrdar millde, drecka þo ecke villde, þa hañ smackade þad. †

Fals under fogru Maale, Fordilldar Hræsneñ ber, Vinautta temprud Taale, og Trwarlaus Ydrun hier, Edik Gallblandad er, soddañ Swrdreggia Vijne, (þo sialfst glislega skijne) HErrañ hrinder fra sier.

Pad tek eg vijst til Packa, þa þu villt DRotteñ kiær, Swrt med þier sialfum smacka: sie þijn Myskuneñ skiær, J hvorre Neyd mier nær, Gallbeiskiu Bolvaneñar, og Vikareñ Heiptareñar, burt tak þu fra mier fiær.

† Nakeñ JEsum a Jordu, Judar Krossfestu þar, med Heiptar Siñe hordu, Hendur og Fæturnar, Teigt allt og togad var, Gieck so Jarn-Gaddur nistur, giegnum Loofa og Ristur, Skiñ og Bein sundur skar.

Tveggia Mordingia mille, Myskunar HErrañ hieck, Spaadoomeñ fra eg so fylle, sem fyr-

meir

meir um̃ þad gieck, Ræder so Ritning þeck, Pinan miñ fra Eirn Utvaleñ, er med Spillvirkium taleñ, Forsmaaþ mieg þronga fieck. †

Nu eg miñest a næsta, Nakcñ þa Adam stood, Vid Tried med Hormung hædsta, Hiarta-Sora, Bol og Mood, þvi Verk hañs voru ei good, Jñvortis Angred kvalde, under Triaanum sig falde, Þess gallt oll Heimsins Piood.

Nu aptur JEsus nakeñ, negldur a Trienu stood, Pijndur, Hwdstryktur, Hrakeñ, Hiartans bar saarañ Mood, þo voru oll Verk hañs good, Eirn fyrer aungvum faldest, Opeñberlega kvaldest, þess naut oll Heimsins Piood.

Horfe eg a Hendur þijnar, HErra miñ JEsu kiær, fyrer Misgiorder mijnar, Meineñ slijk lidu þær, Blood-Dreyreñ dunde skiær, Saurgun Saalar og Handa, sem mier komu i Vanda, af hreint med ollu þvær.

Fws var eg fram ad hallda, Ferel Glæpaña hier, þess Fætur þijnar giallda, þad vard til Lijknar mier, DRotteñ eg þacka þier, fram a Fridarens Leider, Footspor mijn jafneñ greider, hiedañ af hvar eg fer.

Gud giæfe mitt Holld mætte, med þier Krossfestast nu, fra ollum Illsku Hætte, Ost mijn er Daaleg sw, miñ HErra þad veitst þu, uppa þad Ond mijn kyñe, Ohindrud Giædsku þiñe, þiona med þijdre Trw.

Eirn med Illrædis-Moñum, aller þig hielldu þa,

þa, sem i Heilagleik sońum, sialfur komst Himnum fraa, Nu eg þess niioota maa, af þvi eg er vtvaleń, med ødrum Guds Børnum taliń, þar treyste eg Eflaust aa.

Jeg mun æ medań hiare, mińast aa Krosseń þiń, Heimsins liwfe Lausnare, Lijfgar þad Huga miń, hvort eg geing Ut eda Jń, af iństum Altar-Gruńe, ætijd med Hiarta og Muńe, Seiglande hvørt eitt Siń.

JEsu Christi Tvol Eina, A Krossenum fyrer oss skien, Sie mijn Saattargiørd hreina, og Synda-Kvittunen, af sialfum Gude sien, uppaa þad Ond mijn vonar, J Nafne Fødurs og Sonar, og Heilags Anda, Amen.

# XXXIV. Psalmur.

## Fyrsta Ord Christi aa Krossenum,

Ton, Lifande Gud þu lijt þar aa, etc.

†

EGar Kvalarar Krosseń aa, keyra vorn HErra giørdu, Flatur med Trienu lagdur laa, Lausnareń nidur aa Jørdu, Andlited horfde i þeim Stad, og Augun hańs Blessud Himnum ad, hań stunde af Angre hørdu. †

Siń Fadm allt eins og Barned blijdt, breidde moot Fødurnum kiæra, Blooded dunde og Taareń

reñ tijdt, tierade-Holldeð ſkæra, hier ſkoda Mad-
ur Huga þiñ: Hvad kuñe meira nockurt Siñ,
O Rottañ til Hefndar hræra?

† Ovinum Fridar blijdur bad, Bruñur Mys-
kunariñar, hañ vill þeir nioote eirneñ ad, Avaxt-
ar Pijnu ſiñar, ſagde: Fader þeim ſyrergief þu,
Forblindader ei vita nu, ſialfer hvad vondt þeir
viña. †

Lauſnara þijnum lærdu af, Lunderne þitt ad
ſtilla, Hoogværdar Dæme gott hañ gaf, nær gio-
ra Meñ þier til Illa, Bloot og Formæling varaſt
vel, a Valld Guds allar Hefnder fel, Heipt laat
ei Hug þiñ villa.

Þoott þu vid adra Saklaus ſiert, ſañlega ſkallt
þeſs giæta, Samt fyrer Gude ſekur ert, ſar a þig
ſrialſt ad græta, Iller Meñ eru i Hende hañs,
Hyrtingar Vondur Syndugs Mañs, Eingeñ
kañ þeſs ad þræta.

Ovinum Ills þo Oſker hier, ei mijnkar Heipt-
eñ þeirra, Oþoleñmæde eykur þier, afrækir Bod
þijns HErra, Þu ſtygger Gud med ſoddañ
Sid, Samvitſkañ mjog þar ſturlaſt vid, Tioon
þitt verdur þvi verra.

Upplijſtu Hug og Hiarta mitt, HErra miñ
JEſu ſæte, ſo ad eg Dijrdar Dæmed þitt, Dag-
lega ſtundad giæte, Þeir ſem Oforþient angra
mig, Oſka eg hellſt ad betre ſig, ſo hia þier Myſk-
[illegible] mæte.

[illegible]miſins og Dioſuls Hreckia Viel, Holldeð
þrav-

þrælega villa, þess vegna ecke þecke eg vel, Þo nu margt giøre eg illa, bere so til eg blyndest hier, bid þu þa JEsu fyrer mier, þad mun Hefnd harda stilla.

Eg mæ vel reikna auman mig, eirn i Flock þeirra Manna, sem i Kvolenne þiædu þig, þad voru Giolld Syndanna, en þu sem bætter Brot mijn hier, Bid þu og lijka fyrer mier, so fære eg Frelsun sanna.

Fyrst þu badst Fridar fyrer þa, er Forsmæn þier giordu mesta, vissulega eg vita mæ, villtu mier allt hid besta, þvi eg er Guds Barn og Broder þinn, blessade JEsu HErra minn, Næd kann mig nu ei bresta.

Allra sijdast þa a eg hier, Andlæte mijnu ad giegna, Sie þa minn Gud fyrer Sioonum þier, Sokar þijns Pijnann megna, þegar hann lagdur lægt a Trie, leit til þijn Augum Grætande, væg þu mier þa hanns vegna.

## XXXV. Psalmur.

### Um Yferskriftena a Krossenum.

Ton, Náttúrann oll og Edle Manns, etc.

Yferskrift Pilatus eina liet, yfer Krossenum standa, JEsus nefndur af Nazareth, Nijr Kongur Gydinga Landa (O Rödde

med Hañ, Doomareñ hañ, Dauda Sok aung, va stærre) Margur las þad, i þessum Stad, þvi hañ var Borg so nærre.

Pad var ritad og þañeñ sett, i þreñslags Tungu Maale, Valldsmeñ Juda þad vissu riett, Vilia þvi Pilatus briaale, hañ ansar greidt, ei skyllde neitt, umbreitt, og framar tiaade: Hvad skrifad er, skal standa hier, † so skiede af Drottens Raade.

Par nu a Krosse HErrañ hieck, hier ad mijn Saala giætum, Virdingar Titil fagrañ fieck, med Forpriis Sakleysis mætum, ad Hiaalparfws, heiter JESUs, Heimsins Lausnareñ goode, hvør Dioste fraa, oss frelsa maa, Flecklaus med sijnu Bloode.

Nazarenus hañ nefnest þar: Naatturu Spilling Maña, fraaskileñ eirn ad vijsu var, Velþecka Hlijdne saña, sijnde hañ hreint, liooft bæde og leint, Lifanda Gude einum, hañs Tignar-Son, Trwr forsiaall Pioon, tryggur i ollum Greinum.

Kongur Gydinga klaar og hreirn, J Krapte Gudlegum drottnar, saa Davids-Stool skal erfa eirn, alldrei hañs Rijke þrotnar, Jsraels-Hroos, Heideña Lioos, heiteñ Forfedrum leinge, soddañ Titel, Soomde riett vel, Saal mijn, þiñ HErra feinge.

† Soddañ Virdingu villdu hañ, Vondet Gydingar sneida, Heiptar Ofundeñ i þeim brañ, af þvi Pilatum beyda, Ordtak þad braadt, A

añañ Hiartt, wrfæra settum Mæta, hañ kvad vid Nei, Þvi þad vill ei, Þeim DRotteñ veitast læta. †

Dramblætum setur DRotteñ Skamt, med Diörfung sijna og Hrecke, þeim lijdst soo sem hañ leyser framt, Leingra komast þeir ecke, Allt skal mitt Traust, Efunarlaust, aa hañs Makt jafnañ standa, Hvad munu mier, þa Meñerner, meiga i nockru grända?

J Preñslags Tungum vär þetta skræd, þviad vor HErrañ millde, villde sijn Elska, Ast og Ræd, allre Þiood byrtast skyllde, hvört Tungu-Mæl, med Huga og Saal; heidre þig JEsu goode, sem Kvoleñ þijn, og Krossens Pijn, Keypte fræ Synda-Moode.

Giefdu ad Möödur-Mæled mitt, miñ DRotteñ þess eg beide, Fræ allre Villu klært og kvitt, Krossens Ord þitt wtbreide, Um Landed hier, til Heidurs þier, Hellst mun þad Blessan vallda, Medañ þijn Næd, Lætur vort Læd, Lijde og Bygdum hallda.

Hand-Skrift var Ein yfer Hofde mier, hun mijna Sælu grætte, Þñur stood JEsu yfer þier, sem Angur vors Hiarta bætte, JEsu þu ert, Utvaleñ bert, Under Kongs-Stioornan þiñe, Arla og Sijd, Uñ allañ Tijd, Ohætt er Sælu miñe, Amen.

* * * * * * *

# XXXVI. Psalmur.

## Um̃ Skipteñ a Christi Klædnade.

Ton, Hvar munde vera Hiartad mitt, etc.

†

STrijds-Meñ þa hofdu Krossfest Christ, Klædnad hañs tooku snart, skiptu i Stade Fioora fyrst, fær skyllde hvør siñ Part, a Kyrtel prioonadañ liooft med Lyst, logdu þeir Hlutfall diarft, Foolsku Verk medañ fullgiordest, Foolked a horfde margt.

Ritning sw eina uppfylld er, adur var þar um̃ skrad, Skrwda mijnum þeir skiptu sier, Skijrlega þad er tiad, Hlutfalled yfer Fat mitt fer, Fæ eg þess eirneñ gad. † Set Madur slijkt fyrer Siooner hier, sia DRotteñs mikluu Raad.

Nu mattu skilia nakeñ var, negldur DRotteñ a Kross, opeñbert sau aller þar, wtruñeñ Ortira Foss, soddañ Forsmaan Guds Sonur bar, sañlega fyrer oss, hier giefst ollum aan Hilmingar, Himneskt Myskunar Hnoss.

Kalla eg merke Klædeñ hañs, Christnena i Heime hier, Um̃ Fioorar Atter Folldar-Rañs, Flockur sæ dreifde sier, Lijf-Kyrtell þesse Lausnarans, Lijknar Ord blessad er, vilie þvi skipta Skynsemd Mañs, Skilning Sañleikssins þver.

Ei liet vor DRotteñ Audlegd hæ, epter i þessum

um Heim, Klædeñ sem hañ bar Hollde a, eñ hvorke Gull nie Seim, þo maatte ei hañs Mooder faa, hid miñsta af øllum þeim, Iller Meñ Hende yfer þau slaa, Alldrei þvi Dæme gleim.

Safna Hooflega Heimsins Aud, Hugsijkeñ sturlar Gied, þigg af DRottne þitt Daglegt Braud, duga laat þier þar med, Hollded þa Jordeñ hylur raud, Hlotnast maa Imsum Fied, so þig ei giñe Gyrndeñ snaud, giæt vel hvad hier er skied.

Strijdsmaña Heypt og Hardydge, HErrañs Kvøl gat ei mijkt, þo vite noog hañ særdur sie, Siñed var Illsku rijkt, þeir sem Faatækañ fyrra Fie, Foolsku Verk drija slijkt, Gud laate þig ei Glæp þañ skie, þu gioerer oñad þvilijkt.

Nakeñ a Krosse hieckstu hier, HErra miñ Gud og Mañ, Fullnadar Borgun feingeñ er, fyrer mig Syndugañ, þa Foorn DRotteñ, og Saal mijn sier, sw gledst, eñ blijdkast hañ, Brwdkaups Klædnad tilbiooftu mier, þañ besta eg gyrnast kañ.

Henteuglega fiell Hlutur faa, HErra miñ JEsu kiær, þu liest mig aumañ siña og faa, Fagnadar Ord þijn skiær, þeim Klædafallde þreifa eg a, þegar mig Hrigdeñ slær, Straumur Eymdaña stodvast þa, Styrk nijañ Hiartad fær.

Hier þo nu skipte Heimuriñ, hlæande Aude sijn, Endast sa Glaumur eitthvort Siñ, þa Æfeñ lijfsins dvijn, mier laattu hlotnast HErra miñ, Hlut-

fall næst Krosse þijn, svo Dijrdarfegurste Dreire þiñ, driwpe ai Saalu mijn, Amen.



# XXXVII. Psalmur.

## Aññad Ord Christi a Krossenum.

Ton, Ef Gud er oss ei sialfur hiaa, etc.

†

UPP Preistum Krosse HErrañs hiaa, hañs Mooder standa naade, Sverded sem fyrr ried Simeon spaa, Saal og Lijf heñar þi-aade, Johañes eirneñ JEsu kiær, jafnt var þar lijka staddur nær, gløgt saa ad ollu gaade.

Siñe Moodur hañ seigia ried, SON PJNN LJTTTU PAR KVJNNA, vid Læresvein-eñ Lijka med, Lausnareñ bliidt nam iña, SJA PU OG MOODUR PJNA PAR. þad-añ i fra(sem skylldugt var,) saa took hana til siña. †

Sa sem Hlijdneñar sette Bod, siñe Blessan ri-ed heita, þeim ed Forelldrum Styrk og Stod, stunda med Elsku ad veita. Soddañ Dygdaña Dæmeñ hier, DRotteñ vor sialfur gaf af sier, Børnunum epter ad breita.

Gyrnest þu Barn mitt Blessan faa, Biørg Lijfs og Giæfu fijna, Forelldrum skalltu þijnum þa, Vocknan og Hlijdne sijna, Ungdooms Yver-lynded optast nær, Olucku og Slis ad Launum fær, Hreckvijsa Hefnder pijna.

Eckiur-

Eckiurnar siña eirneñ hier, Agiætis Huggun blijda, JEsus allt þeirra Angur sier, Umsioon þeim veiter friijda, ef þær med hreinum Huga og Sid, hallda sig DRottens Pijnu vid, og hañs Hiaalpprædes bijda.

Maria DRottens Mooder kiær, merker Guds Christne saña, Under Krossenum optast nær, Angur og Sorg maa kaña, til heñar lijtur þo HErrañ hiirt, Huggunar Orded sender dijrt, og Forsioon Froomra Maña.

Pad reinest opt i Heime hier, Hlutfall Drottens Astvina, Hørmungar Sverded sart þa sker, Sælld Holldsins gledur hina, hvorier þo Christum hata mest, hefur þad laungum vidgeingest, lijtt vill þvi Angre lina.

Eñ þeir sem JEsum elska af Root, under hañs Krosse standa, HErrans Blood-Fadme horfa a moot, hvøru þeir lijta i Anda, Trwar og Vonar Siooneñ sett, Saar hañs og Beniar skoda riett, þad mijker Mein og Vanda.

JEsus eirneñ med Ast og Raad, aptur til þeirra lijtur, Giefur Hugsvølun, Hiaalp og Raad, Harma-Bond af þeim slijtur, adgiæteñ Fodurs Auguñ klaar, oll reikna siña Barna Taar, Adstod þau alldrei þrijtur.

Jeg lijt beint aa þig JEsu miñ, Jafnañ þa Hrygdeñ særer, J mijnum Krosse Krosseñ þiñ, kroptuglega mig nærer, sierhvort einasta Saared þitt, Sañlega græder Hiartad mitt, Og nijañ

Fögnud færer.

5. Þa eg Andvarpa, Oska og Bid, Augunum Trwar miñar, Lijt eg hvort einast Orded vid, upp til Kross-Pijnu þiñar: Strax sijna mier þijn sig-nud Sar, Syndugum Mañe opeñ stair, Bruñ-ur Blessunariñar.

6. Glede-Stund Hollds þa giefur mier, Gud miñ ad Vilia sijnum, Uppar þig JEsu horfe eg hier, Hiartañs Augunum mijnum, Audlegdar Giædeñ Lijkamlig, Lattu þo alldrei villa mig, fra Kross-sens Fadme þijnum.

7. Jonas sat under einum Lund, aungra Meina þvi kieñde, Hædeiges-Soolar Hita-Stund, hañ ei til Skada bréñde, JEsu Kross-Skugga Skio-oled hier, skijler þo længtum betur mier, fyrer Guds Hefndar Hende.

8. Hvort eg Sef, Vake, Sit edur Stat, i Sælu og Hættum Nauda, Krosse þijnum eg helld mig hia, horfande a Blood þitt rauda: Lat mig eirn-eñ þa Æfeñ þver, wt af sofna a Footum þier, so kvijde eg sijst vid Dauda, Amen.



# XXXVIII. Psalmur.

## Um Brijxleñ sem Christur leid a Krossenum.

Ton, JEsus sem ad oss frelsade, etc.

†

HEir sem ad Christi Krosse señ, komu og fram hia geingu, hristu med Hæduug Hofudeñ, honum til Brijxlis feingu, Heit Ord sijn hefde hañ hallded lijtt, HErrans Mustere ad brioota, at Premur Dogum añad nijtt, Efna med Bygging flioota. †

Tveir lugu soddañ Fals-Meñ fyrst, fyrer Caiphas Doome, af þvi hafde þad vtboreft, epter Fiolmeñis Roome, þesser þo hafe heyrt og sied, HErrans Jardteikner frijdar, Lijgeñ þeim betur gafst uñ Gied, geingur so eñ til vijdar.

† Olldungar Landsins, Folked flest, og Flockur Heideñ Stridsmaña, HErrañ vorn JEsum hæddu mest, med Hofdingium Prestaña, Segdu: ef ertu Son Guds kiær, saa þig med Krapte stidur, kom þu hier, So þad siaum vær, siaalfur af Krosse nidur.

Hañ saa ed odrum hefur hier, hiaalpad og læknad marga, megnar nu ecke ad soñu sier, siaalfum vr Neyd ad biarga. Soddañ Haadyrde, Hroop og Daar, hlaut þa JEsus ad lijda, stood þad yfer uñ Stunder þriaar, Stutt var Andlaats ad bijda. †

Þa framhia Christi Krosse nu, fallsande hellð eg gaanga; Sem ecke af Hiartans Ast og Trw, elska hañs Pijnu straanga, Heilagleik sijnum hroosa frij, vid Holldsins Fijsn sig binda, sijdañ fa-lla Orvænting i, eda Forherding Synda.

Ad þijnum Krosse Christe kiær, kiem eg sem eirn Framande, gief þu mier Leyfe ad ganga nær, Gied mitt styrke þiñ Ande, so eg hugleide hvad til kom, Hædung, Brÿxl-Ord og Pijnu, leidstu Mañs giædsku Milldeñ froom, Moote Andlaate þijnu.

Sæl mijn og Lijf. þær Sæmder hlaut, sialfs Guds Mustere ad heita, i Skijrneñe, þvi eg þijn ad naut, þad nam Guds Ande ad veita, sijdañ hefur þad Syndeñ morg, saarlega giort ad brioota, Hollds Natturañ þvi elskar org, Athæfed Heimsins liota.

A þremur Dogum þar a moot, þvi hiet eg mørgu Siñe, med Ydran, Trw og Yferboot, aptur þad bætast kyñe, Æ! hvad veiter slijkt ervidt hier? Efneñ og Dug vill þverra, Brÿxled sem til var bwed mier, bar þvi JEsus miñ HErra.

J Velgeingneñe eg hroosa hætt, Hrausleika Trwareñar, i Mootlætenu hun bilar braatt, Brest fiñ eg stooran heñar, eingeñ fullkomeñ a mier siest, Avoxtur Dygda sætur, bar þvi fyrer mid Brÿxled vest, Blessadur JEsus mætur.

Hiaalpa læst eg med heilnæm Raad, hinum sem illa breita, sialfs mijns Lijta þo sijst fæ gaad, soddañ ma Blindne heita: Mier var þar stærsta Mynkun ad, mætte Hædyrdum kvijda, burt-took nu JEsus Bøled þad, Brÿxleñ þvi villde hañ lijda.

JEsu i þijnu Andlaate, yfer þig Brÿxleñ dundu, ad so i Fride Aund mijn sie, a miñe Dauda-stundu.

stundu, Hørdung leidstu af øllum eirn, alla fraa Hørdung leyster, alldrei tapast sa nockur neirn, er Nafn þitt uppa treyster.

Nær sem Hreckviisra Hørdung nii, Hiartad mitt scart vill stanga, under þiñ Kross eg seigeñ flij, fram̃ hiaa skal eige ganga: Þar stend eg kyrr, þo Kalls og Spie, kveike mier Heims Oblijda, uppa þig JEsu eirn eg sie, allt vil eg med þier lijda.

Fyrst þu varst hæddur HErra þa, Harma Kvøl leidstu slijka, so heldre þig nu hiedañ i fra, Himnar og Jordeñ lijka, aller Einglar og øll Heims Mynd, under þitt Walld sig hneige, og eg þar uppa aum Mañkynd, Amen af Hiarta seige, Amen.



# XXXIX. Psalmur.

## Um̃ Ræningians Ydran.

Ton, Eirn HErra eg best ætte, etc.



NNar Ræningeñ rædde, sem ressad þad Siñ var, HErrañ vorn JEsum hædde, hañ gaf þetta Andsvar: Ef þar Von er til nockur, ad þu Guds Sonur siert, hiaalpa þier og so ockur, wr þessum Naudum bert.

Eñ hiñ þar uppa giegnde, ecke hrædest þu Gud, Hvørium Straffs Heypteñ hegnde, Hwn var riett forþienud; Wid meigum vel medtaka, Werka Be-

Betaling þañ, Eñ þesse er alls ean Saka: Epter
þad sagde hañ:

Hugsa þu til mijn HErra, þa helldur þu Rijke
þitt, Ast DRottens ei nam þverra, Andsvar liet
heyra sitt: SANNlega Eg ÞJer SEige (sw
er Hugguneñ vijs) Þu SKallt a þessum Deige,
MJer ÞJoona J ÞARADijs. †

Siea hier fyrst Straffed Synda, Seala mijn
hryggelegt, Forherding Hiartans blinda, Þo
Hollded kveliest frekt. Giefdu mier JEsu goode,
Eg giegne vel Hyrting þijn, med Trw og Taara-
Floode, og tieae þier Broteñ mijn.

Reningians Ydran eina, Athugum lijka med,
hañ giørde Jeatning hreina, hatade Jllverk skied,
þvi sagde hañ være ad Vonum, Verdlauneñ
Rangleætis, Avijtun veitte honum, sem villde ei
giæta þess.

Hañ trwde a Himnarijke, hefde vör JEsus
Read, þo Syndugra sijndest Lijke, so treyste ea
hañs Nead, med Blygdun og hrelldum Huga,
HErrañ sijn miñast bad; Lifsflega liet sier duga
Loford ef feinge þad.

Hroop og Heareyste giørdu, Heidner og Jud-
ar þar, kringum Krossen a Jordu, med Kalls,
Bryxl og Headungar, Svarade ei Son Guds nei-
nu, þo sialfañ þad snerte hañ, Eñ syndugs Mañs
Orde einu, ean Dvalar giegna vañ.

Sætt mier fyrer Sioonum skartar, Sæll JE-
su Giæskañ þijn, Þier gieck helldur til Hiarta, hañs
Neyd

Neyd, eñ sialfs þijns Pijn, Sama hefur þu Siñe, Vid syndugar Skiepnur hier, þvi alldrei Elsku þiñe, aptur miñ HErra fer.

Illvyrkeñ hafde uñed, Odæda Verkeñ stædst, Gotu Glæpaña ruñed, greidt fram i Daudañ næst, eñ JEsus ecke villde, æ þad neitt miñast nu, svo var mykel hañs Millde, mijn Saal þad hugleid þu.

Eingeñ Örvænta skyllde, þo ydrast hafe seint, sem er Guds Sonar Millde, sie añars Hiartad hreint, þvi hvorke vid Stade nie Stunder, stijlud er DRottens Naad, Allt fram Andlaated under, oss bijdst hañs Hiaalpar Raad.

Eñ þu skalt ecke Treysta, Ovisstre Dauda-Stund, nie Guds med Glæpum freysta, Giörande þier i Lund, Naadar-Tijmeñ sie næsta, noogur Hondum syrer, slijkt er Hættusemd hædsta, heñe Gud forde mier.

So margt eg syndgad hefe, Sorgeñ mig sturlar nu, Ydrun Guds Naad mier giefe, Glooande Von og Trw. HErra JEsu hiart-kiære, hugsa þu til mijn þa, Dapur er Daudeñ nærre, og drag mig Kvolum fra, Amen.



## XL. Psalmur

### Pridia Orded Christi a Krossenum.

– Ton, Skapareñ Stiarna HErra hreirn, etc.

†

UPPa Ræningians Ord og Boon, ansade Guds hiñ Kiære Son: PU skallt SA-NNLEga SEIGE EG Pier, SÆlu Visthafa i Dag Med Mier. †

Siaadu med Giætne Saal mijn kiær, soñ Ydran hvoriu kraptad fær, uppa þad Dæmed er hier riett, ollum til Lærdooms fyrersett.

Reide DRottens þa uppegnd er, yfer Ræangsæte Mañsins hier, Ydruneñ blijdkar apur Gud, ei verdur Syndeñ tilreiknud.

Po kome høstug Hefndeñ braad, hrein Ydran jafnañ siñur Naad, midt i standande Straffe þui, stillest Guds Reide uppa nij.

Samvitsku Orma Saareñ best, soñ Ydran jafnañ græder best; Hugsvalar Saal, og huggar Gied, heilaga Eingla gledur med.

Bæn af ydrande Hiarta hijr, hun er fyrer Gude meteñ dijr, HErrañ IEsus a hvørre Tijd, heñe gaf jafnañ Andsvør blijd.

Sem Moyses med sijnum Staf, sætt Vatn droo fordum Steine af, Eins fær ydrande Andvarp heitt, Ys af Guds Hiarta Myskun leidt.

Jaatning mijn er su IEsu miñ, Jeg er sem þesse Ræningeñ, jaa, aungvu betre fyrer Augsyn þijn, ef þu villt reikna Broteñ mijn.

Kiem eg nu þijnum Krosse ad, kañast þu IEsu miñ vid þad, Syndaña Prænge þiakar mier, þreyttur eg nu ad mestu er.

Al-

Alnaken þig a einu Trie, wt þijnar Hendur breidande, Saaren og Blooded signad þitt, sier nu og skodar Hiartad mitt.

Par vid huggar mijn Sœla sig, soddan alla leidstu fyrer mig, þijns Hiarta Dreira heilög Lynd, hreinsar mig vel af allre Synd.

Krossens burtnumen Kvølum fra, Kongur rijker þu Himnum a, HErra þegar mig hreller Pijn, hugsadu i þine Dijrd til mijn.

Seigdu hvorn Morgun svo vid mig, sæte JEsu, þess beide eg þig: J Dag þitt Holld i Hime er, Hiartad skal vera þo hia mier.

J Dag (hvorn Morgun eg so bid) alldrei læt mig þig skiliast vid, Hugur, Sine og Hiartad mitt, hugse og stunde a Rijked þitt.

Eins þa kiemur mijn Andlaats Tijd, Orden læt mig þau heyra blijd, i Dag (seig þu) skal Saalen þijn, Sanlega koma i Dijrd til mijn.

HErra min þu varst hulen Gud, þa Hædne leidst og Krossens Naud, þo hafder þu med hædstre Daad, a Himnarijke Valld og Raad.

Daudanum moot mier Dierfung nij, Daglega vex af Orde þvi: i Dag þa lijdur ei længt um þad, leidd verdur Qnd i Sælu Stad.

O! JEsu sieu Orden þijn, Andlaats sijdasta Huggun mijn, Saal mine verde Sælan vijs, med sialfum þier i Paradijs.

* * *

# XLI. Psalmur.

## Pad Fioorda Ord Christi a Krossenum.

Ton, Afdiwpre Hrygd akalla eg þig, etc.

†

UM Land giørvallt vard yfred myrkt, allt nær fra siøttu Stundu, Sooleñ þvi Lioo- ma siñ fieck byrgt, señ til hiñar Nijundu, GUD MJñ (JEsus svo hroopar hatt) HVAR FYRER GLEJMDER PU MJER BRADT? † Soddañ mijn Sal vel mundu.

Eingeñ skal hugsa ad HErrañ þa, hafe med Efa og Bræde, Hroopad hañeñ, nie horfed fra, Heilagre Polenmæde: Syndaña Krapt og Kvalaña stærd, kyñer hañ oß, So verde hrærd, Hiørtun fra Hreckia Æde.

Sooleñ blygdast ad skijna skiær, Pa Skaparañ siñ sa lijda, Hun hafde ei Skulld, Pad vitum vær, þeß Voda-Meinsins strijda, O! Hvad skyllde þa skamast sijn, Skiepnañ sem DRottne jook þa Pijn, med Hrygd og Hiartans Kvijda.

Avi! hvad maa eg aumur Præll, angrædur nidur driwpa; þa eg heyre miñ HErra sæll, Sw Harma-Bylgiañ diwpa, Gieck yfer þig þa gallstu mijn, giarnañ vil egad Footum þijn, Feigeñ fram-flatur kriwpa.

J ytstu Myrkrum um̃ Eilijfd er, Op og gnijstrañ Tañaña, Hefndar Straff þad var maklegt mier,

mier, fyrer Margfiolldañ Glæpaña, Fra þvi JEsu þu frelster mig, Frekt geingu Myrkreñ yfer þig, so skyllde eg þa Kvol ei kaña.

J svortu Myrkre þad sama Siñ, Sorgar-Raust lietstu hlioma, þa hroopader þu mig Herra iñ, J Himneskañ Dijrdar Liooma: J þvi Liooste um eilijf Ar, utthroopa skal mijn Raustenñ klaar, Lof þiña Leyndardooma.

Synda, Sorga og Mootgaangs med, Myrkreñ so opt mig pijna, ad glegt fær ecke Saaleñ sied, Sælu Geislaña þijna, JEsu Riettlætis Sooleñ sæt, syrgiande eg þad fyrer þier græt, Harma-Raust heyr þu mijna.

Gud Miñ, Seige eg giarnañ hier, Geist þo mig Sorgeñ mæde, JEsu eg lære nu þad af þier, þad skulu mijn Urræde, giorvoll þa Heimsins Gledeñ dvijn, Gud Miñ eg hroopa vil til þijn, Gud Miñ allt Bol mitt græde.

Yfergiefeñ kvad Son Guds sig, Pa særde hañ Kvoleñ megna, yfergiefur þvi allðrei mig, Eilijfur Gud hañs vegna, fyter þa HErrans Hrygdar-Raust, Hædstur DRotteñ muñ Efalaust, Graatbeidne miñe giegna.

Pa Soolar-Byrtuñe eg svipttur er, Sioon og Heyrn tekur ad dvijna, Raust og Maalfære mijnkar mier, Myrkur Daudans sig sijna, J miñe hier DRotteñ fell þa sie, Sonar þijns Hroop a Krossens Trie, Leid Saal til Lijfsins mijna, Amen.

* * * * * * * *

# XLII. Psalmur.

## Fimta Ord Christi a Krossenum.

Ton, Eins og sitt Barn, etc.

†

Hoarre Neyd, sem JEsus leid, sagde hañ glogt, MIG PYRSTER, So Rit-ning hrein, J hvorre Grein, Uppfylltest ein, uñ þad mig ræda lyster.

Strax hlioop eirn ad, þa heyrde þad, hitta Niardarvett kuñe, Liet a Reyr-Prik, Drap i Edik, med illt Tilvik, og bar JEsu ad Muñe. †

Forundrast ma, mijn Saal, þar a, Madur-eñ hvor þess giæter, ad hañ sem Raad, hefur med Daad, a Himne og Laad, Hormung þvilijkre mæ-ter.

Hañ sa sem Viin, af Vallde siin, wr Vatne sætt tilreidde, med Sorgar Skick, fieck Swrt Ed-ik, fyrer Svala-Drick, þa sæart hañ Porsteñ neidde.

Þvi mundeei hier, til Hlijfdar sier, HErrañ Ediked lijka, sem Viin aagiætt, giora vel sætt, fyrst gat þad bætt, hañs Guddooms Maktiñ rijka?

Komeñ var Tijd, Kraptaverk frijd, Christur ei giora skyllde, hin stundeñ þa, fyrer Hende la, Hryg-gd, Kvol og Pra, HErrañ vor lijda villde.

Kraptaverk hrein, kiendu þa Grein, ad Christur Guds Sonur være, eñ Kvoleñ hañs, sijnd-

til Hañs, ad Syndugs Mañs, Sekter og Gis
olld hañ bære.

Guds einka Son, giordest vor Pioon, þa græd-
de hañ Mein og Kvijda, Offur Lamb best, hañ
orden siest, fyrer utan Brest, i þvi hañ Kvol nam
lijda.

Af Strijde þvi, sem stood hañ i, Styrkleike
Mañs Natturu, Preytast miög vañ, þvi Pyr-
ste hañ, bæde Vokvañ, þo af Edike sworu.

J añañ Stad, merk Madur þad, og minst þess
hvoriu Siñe, ad HErrañ Christ, hefur mest þy-
rst, af Ast og Lyst, epter Sæluhiælp þiñe.

O! Madur nu, þeink þar uñ þu, þiñ Hugur
blygdast skyllde, Gud Pyrste hier, ad hiælpa þier,
Eñ Hiartad þitt er, Oþyrst epter hañs Millde.

Heyr þu Sæl mijn, Talar til þijn, Trygda-
Brwdgumeñ goode: Pyrstur eg er, J Hrygdum
hier, so hiælpe eg þier, wr hættu Kvalaña Floode.

Ber honum sijst, Þess bid eg vijst, Beyskañ
Dryck Hræsnis Anda, Orden hañs hrein, a alla
Grein, fyrer utan Mein, Obriælud lætu standa.

Uppa Ord þin, svarar Sæl mijn, Sorgeñ
þo Mæled hepter: Pyrst er eg nu, og þad veist þu,
þijde JEsu, Piñe Myskunsemd epter.

Ecke er hia mier, þad Pyrstum þier, Pore eg
nu fram ad biooda, Neina fa Taar, Trw veik þo
klaar, sem til þijn stær, Tak þad og vird til gooda.

Lof, Dijrd sie þier, Lauñ sieckstu mier, og lierst
þig so miklu kosta, Hiartad a nij, huggast af þvi;

ad eg er frij, fra eilijfum Kvala Porsta, Amen.

## XLIII. Psalmur.
### Siotta Ord Christi a Krossenum.
Med Himna Lag, etc.

†

EPter ad þetta allt var skied, Ediked JEsus smacka ried, Proott og Lijfs-Krapta þverra sañ, ÞAD ER FULLKOMNAD, sagde hañ. †

Ord þijns HErra med Ast og Trw, Athuga kyllder Saal mijn þu, ef þeirra Grundvoll sañañ ñer, Sæta Huggun þau giefa þier.

Fyrst skalltu vita ad Gud wtgaf, Greinelegt Logmaal Himnum af, hañ vill ad skule Heime i, Hvor Madur lifa epter þvi.

Algiørdt Riettlæte lioost og Leynt, Lijkama, Saal og Gieded hreint, Syndalaus Ord og Atvik med, Af oss Logmaaled heimta ried.

Hugureñ vor og Hiartad sie, i hreinnre Elsku riett breñande, Fyrer utañ Hræsne, Bræde og Vañ, bæde vid Gud og Nauungañ.

Hvor þetta giæte hallded riett, honum var Lijf-(?) fyrersett, Eñ ef i einu wt af brær, Eilijf Fordæming vid þvi lær.

Eingeñ Madur fra Adam fyrst, Epter þañ Dag hañ syndgadist, Fullnægiu gat þvi giort til

Sañs,

Sañs, geingur þad lœngt yfer Edle Mañs.

Obæreleg vard allra Sekt, epter þvi DRotteñ gieck so strekt, añad hvort skyllde uppfyllt þad, Eda Mañkyned fortapad.

JEsus Symd vora alla sœ, Ofañ kom til vor Jordu œ, Hædum Himna Upprune af, under Logmaaled sig hañ gaf.

Viliuglega i vorn Stad gieck, var sw Framkvæmdeñ Gude þeck, Fodurnum Hlijdnë fyrer oss gallt, Fullkomnade so Logmaal allt.

Eñ so ad Synda-Sekteñ skied, sañlega yrde forlijkt med, og Bolvan Logmaalsins burtu maad, Beiska Kvol leid og Daudans Hœd.

Pa hañ nu hafde allt uppfyllt, sem oss var sialfum ad giora skylldt, og bæta oll vor Broteñ frij, Verlega villde hañ lijsa þvi.

Pessvegna HErrañ hroopa nam, Hart nær œ Krossetrijgeñ fram, ad oss i voru Andlœte, Oß hañs Verdskulldan Huggun sie.

Soddañ adgiættu Saala miin, Sonur Guds hroopar nu til þijn, hvad þier til Frelsis þiena kañ, PAD ER FULLKOMNAD, seiger hañ.

Fullkomnad Logmaal fyrer þig er, Fullkomnad Giallo til Lausnar þier, Fullkomnad allt þad fyrer er spaad, Fullkomna skalltu eignast Naad.

HErra JEsu eg þacka þier, Pvilijka Huggun gafstu mier, Ofullkomleika allañ miñ, Umbæta Guddooms Kraptur þiñ.

Hialpa þu mier so Hiartad mitt, hyse jafnañ

um Dæmed þitt, og halldest hier i Heime nu, vid hreina Samvitsku og riettq Trw.

Uppa þesse þijn Orden trauſt, Ohræddur Dey eg Kvijdalauſt, Pvi ſiw Frelſis Fullkomnan þijn; Forlijkad hefur Broten mijn, Amen.

# XLIV. Pſlmur.

## Siounda Ord Christi a Krossenum.

Ton, HErra Gud i Himna Rijke, etc.

†

HErr Roopade JEſus hatt i Stad, Hollds Megn og Kraptur dvijnar, eg fel min Anda (Frelſaren kvad) Fader i Hendur þijnar. †

Pu Christen Madur þeink uppa, þijns HErra beiſkan Dauda, ad Ordum hans og eirnen gæ, eru þau Lækning Nauda.

JEſus hallden i hædſtre Kvøl, hladen med Eymder allar, dapurt þa adgieck Daudans Bøl, Nottenn ſin Fødur kallar.

HErran vill kienna þar med þier, þijn ef Manſauner freiſta, Goodlyndur Fader Gud þin er; giorer þu honum ad treyſta.

Fyrer JEſum þu fullvel matt, Fødur þin Drottenn kalla en þo þig Krossen þvijnge þratt, þad ... ker Hørmung alla.

Eins og Faderen aumkar ſig, yfer ſitt Barn-

ed siwka, so vill Gud eirneñ añast þig, og ad þier i Myskun hiwka.

Eirneñ sijna þier Ord hañs klaar, Odaudleik Saalareñar, þo Kropureñ verde kalldur Naar, kreinkest ei Lijfed heñar.

Hvar hun fiñur siñ Hvijldar Stad, HErrañ siiner þier lijka, Hond Guds þijns Fødurs heiter þad; hugsa uñ rædu slijka.

Vilier þu epter endad Lijf, eige þijn Saal þar heima, under Hond DRottens hier þa blijf, hañs Bodord skalltu geyma.

Lættu Guds Hond þig leida hier, Lijfs Reglu hallt þa bestu, blessad Ord hañs sem bodast þier, i Brioostie og Hiarta festu.

Hrittu ei fra þier HErrans Hond, hun þo þig typta villde, legg helldur bæde Lijf og Aund, Liwflega a DRottens Millde.

Hier þegar Mañleg Hiaalpeñ dvijn, Hollded þo kveine og sijte, uppa Hond DRottens Augun þijn, ætijd i Trwñe lijte.

Ad Morgne og Kvollde miñst þess vel, Maals Uppteckt lættu þijna: Af Hiarta eg þier a Hendur sel, HErra Gud Saalu mijna.

So mættu vera viss uppa, Vilie þier Daudeñ granda, Saaleñ þijn mæter Myskun þa, millum Guds Fødurs Handa.

Hun fiñur eckert Hrygdar-Strijd, Hormung nie Mædu neina, i Fride skodar ætijd blijd, Asioonu DRottens hreina.

Eptertekt mier þad eirnen jook, er eg þess giæ-
ta kune, Andlaats Bæn siina siaalfur took, Son
Guds af Davids Mune.

Bæn þijna alldrei bygdu fast, a Brioost Vit
Natturu þinar, i Guds Orde skal hun Grund-
vallast, þad giefur Styrk Trwarenar.

Vier vitum ei hvors bidia ber, Blindleiken
Holds þvi velldur, Guds Ord siiner þan San-
leik hier, Sæll er sa þar vid helldur.

Vertu Gud Fader, Fader minn, J Frelsarans
JEsu Nafne, Hond þijn leide mig Ut og Jn, so
allre Synd eg hafne.

Honden þijn DRottenn bliife mier, þa Heims
eg Adstod misse, en nær sem þu mig hyrter hier,
Hond þijna eg gladur kysse.

Daudans Striid af þijn Heilog Hond, hiaal-
pe mier vel ad þreya, Medtak þa Fader mijna
Ond, mun eg so gladur deya.

Minn JEsu Andlaats Orded þitt, J mijnu
Hiarta eg geime, Sie þad og lijka Siidast mitt,
Ad sofna eg burt wr Heime, Amen.

## XLV Psalmar
### Um JEsu Dauda.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

†

DA Frelsaren i Fedurs Hond, fool nu bless-
adur siina Ond, nidur sitt Hofud Hneigde
fyrst, HErran, i þvi han Saaladist. † Drott
enn

eñ vor hañeñ do a Trie, Daa semd kuñe ei meire skie.

St. Paall seiger i sañre Raun, Syndareñar sie Daudeñ Laun, Bana-Spioot hañs eru Broteñ lioot, Bodordum DRotteñs giørd aa moot, Saa skal deya sem syndgar hier, Soddañ Urskurdur riettur er.

Eñ þad hier heima aatte sijst, Af þvi JEsus er Saklaus vijst, af helgum Anda med hreinum Sid, Hañ var gieteñ i Meyar-Kvid, Guds Fodurs Veru fegurst Mynd, Frials lifde og doo af allre Synd.

Hvorke Refsing nie Heliar-Bad, hafde nu JEsus forskulldad, hvad kom þa til ad HErrañ leid, harda Pijnu og beyskañ Deyd? Eda hvar fyrer hyrtest hañ, Hyrtingar til sem alldrei vañ?

Guds Ande þar aa giører Skil, greiner þvilijka Ordsok til, vegna Misgiorda vorra hier, vissu lega hañ særdur er, þvi DRotteñ lagde so fyrer Sañ, Syndernar vorar uppaa hañ.

Siaa hier mijn Saal, fyrer Synder þijn, Sonur Guds lijdur Kvøl og Pijn, hañ doo fyrer þig, sem Daudans Bad, Daarlega hafder forskull- ad, hañ liet sitt Lijf, so lifder þu, Lijfs eilijfs Von þvi aattu nu.

A mig var falleñ Pijngsta Praut; Þviad eg DRotteñs Logmaal braut, Samvitsku særde Synda-Graad, syo fieck Daudeñ sterk Y- Raad, til Fordæmingar mier Fiotureñ hañs, F- lega hielldu vijst til Sañs.

Logmaal safnade Sektum mier, Sekteñ Daudeñ epter ser, Daudeñ til Doomsins dreg-ur snar, Doomureñ Straffed wrskurdar, Str-affed uñ Eilijfd alldrei dvijn, Eilijf þvi var hiñ þijngsta Pijn.

Logmaaled hier sig forgreip fyrst, fellde þad Doom yfer HErrañ Christ, þad baud ad saa Bol-vadur sie, sem Bana lijdur aa einu Trie, Diarf-lega epter þvi Daudeñ gieck, DRotteñ fra Lijfe skiled fieck.

Sekt þa sem Logmaal sette mier, sialfur borg-ade JEsus hier, þad miste sijna Makt i þvi, mig verdur nu ad laata frij, Daudans Broddur var broteñ þa, burt hañs Faangelse slapp eg fraa.

Eilijfur Daude deyddur er, Daude JEsu þad viñur hier, Dijrt metur DRotteñ Dauda miñ, Daude hvar er nu Broddur þiñ? Daudeñ til Lijfs nu stutt er Stig, Stoorlega Daudeñ bat-ar mig.

Daudeñ þvi orkar eirn til sañs, wtslokna hlij-tur Lijfed Mañs, Hollded legast i siñ Hvijldar-Stad, hañs Makt nær ecke leingra eñ þad, Saa-leñ af ollu Faare frij, flutt verdur Himna Sælu i.

J þijnum Dauda O JEsu! er mijn Lijfgiof og Huggun trw, Daasemdar Kraptur Dauda þijns, dreifest nu iñ til Hiarta mijns, uppa þad Synd og Jllskañ þver, wt af deye i Briooste mier.

Þu hneigder þijnu Hofde lioost, HErra, þegar aa Krosse doost, med þvi benter þu mier þad Siñ,

ad

ad miñast jafnañ at Dauda þiñ, eins þa eg deʒ, skulu Augun mijn, upplijta Drottenn sæll til þijn.

Fyrer þañ Deyd sem þolder þu, þig bid eg JEsu um þad nu, ad giefe mier þijn Giæskañ blijd, Gooda Christeñs Mañs Dauda Tijd, Holld mier tt læt hvijlast hægt med Frid, Hønd þijn Saalune take vid, Amen.

# XLVI. Psalmur.

## Um Teikneñ sem urdu vid Christi Dauda.

Ton, Pa liñer hier mijn Lijkams Vist, etc.

†

Vegar Christur a Krossens-Trie, lande Daudañ strijda, Teikn og Stoormerke mestu skie (mæler so Ritning frijda) Musteris-Tiallded miog um vendt J Midiu vard ad rifna i Tvent, Hrist eft Jord harla vijda.

Sundur-klofnudu Biørgeñ blæt, byrgd Leiheñ opnast fooru, Lijkamer Daudra lifna þa (lit hier þau Undureñ stooru) Epter Lausnarans Uppрisu, Jñ i Borgena vitiudu, af sumum þar sienet vooru. †

Hvad hier Historiañ hermer riett, hygg ad þu Saal mijn mæta, hier til Lærdooms er þad frañ sett, Pess ættu vel ad giæta, Jordeñ skalf þea

JEsus doo, Jafnvel þeir hordu Klettar þo, sijn- du Medaumkan ſæta.

Steine hardara er Hiartad þad, ſem heyrer um̃ JEſu Pijnu, giefur ſig þar þo ecke ad, an̄ meir Giaalijfe ſijnu: Kan̄ nockud ſoddan̄ kalldt Hug- ſkot, Chriſti Dauda ad gyrnaſt Not? Gud ſtioor- ne Giede mijnu.

Pad maa undra hin þwnga Jord, Preyde ei kyrru ad hallda, Blaagrijtis eirnen̄ Biorgen̄ hørd, Breſte lidu margfallda, Hollded þo ei nie Hiartad-Mans, hryggeſt vid Pijnu Skaparans, ſem hans þo hlaut ad giallda.

Fortiallded ſijner San̄leik þan̄, ſundur þa rifna naade, Af-takaſt ſkyllde øll fyrer San̄, epter Guds ſettu Raade, Gydinga Kynſins Kongleg Stioorn, Kien̄evallded og Løgmaals-Foorn, ſem Ritning ſiaalf um̃ ſpaade.

Hindrun ried øllum æred ſtoor, in̄ i Guds Rijke han̄a, þvi velldur Synda-Sekten̄ vor, Og Saurugleiken̄ Verkan̄a, En̄ fyrer JEſu dijrſtan̄ Deyd, ORotten̄ tilbioo oſs opna Leid, Hiedan̄ upp til Himnan̄a.

Hier i Chriſtnen̄ar Helgedoom, høfum vier Frelſe ad ganga, þar bodaſt Naad og Bleſſun froom, Burt er þa Sorgen̄ ſtranga, Saalen̄ vor hefur bwna Braut, beint i Abrahams Glede- Skaut, epter Heims Hørmung langa.

Frelſarans Dauda eirnen̄ ad, Ondud Lijken̄ hier nioota, Gudlegur Kraptur giører þad, Graf- ernar

ernar opnast hlioota, þvi DRottens JEsu Dau-
de a Kross, Daudan sigrade fyrer oss, Afl hans
og Brodd nam brioota.

Merk ad wr Jordu matte ei Neirn, Madur
fra Dauda standa, fyrr en tiede vor HErra
hreirn, Holld sitt aptur lifanda, Fyrstur allra þvi
uppreis hann, af eigen Krapte, og þar med fann,
Endurlausn oss til Handa.

† Hofdingen Krosse HErrans hia, hier med
allt Foolked lijka, Jafnsnart et soddan Jardteikn
sia, Jatning þeir giordu slijka: Sannlega hef-
ur saklaus hann, og Son Guds vered þesse Mann.
Briooft sla og bradt heim vijkia. †

Foolked sem harda Krossens Kvol, Christo fyrr
Ofsa nade, sann nu hid þijngsta i Briooste Bol,
heiskleg Samvitskan biarde. Of hastarlegann ur-
skurd slij, Ef þu villt vera af Sorgum frij, Hætt
er Rasande Rade.

Daude þinn JEsu DRotten þa', Dijrdlegan
Krapt wtsende, Heidnum Mann so hier vid bra,
hann þig Guds Son medkiende, Jeg bid Giæskun-
ar Gieded þitt, Gief þu vidlisne Hiartad mitt, o
so fra Illsku vende, Amen.

## XLVII. Psalmur.

### Umm Christi Kunningia.

Ton, O JEsu Elsku hreirn, etc.

Kun-

†

Kuñingiar Christi þa, Krossenum laangt i fraa, stoodu med þrongre Praa, þessa Tilburde sia.

Var þar og vidstadt med, ad viisu margt Kveñfoolked, Saar JEsu feingu sied, Sorgande baaru Gied. †

Af þessu miin Saal þu sier, Sañlega hverju er, vallt allt i Heime hier, haf slijkt i Miñe þier.

Dviinar og dregst i hlie, a Dauda Stunduñe, Vinskapur, Frændur, Fie, fallvallt higg eg þad sie.

Po vilľdu Vinerner, veita Hiaalp nockra þier, Vern þeirra Onijt er, eingeñ Daudanum ver.

Lijsenu hwkar Hond, þa herder Sottar-grond, hiaalpa þo eingeñ Ond, Upphuxud Raadeñ vond.

Vinskap i Synda Sid, Saala miin þess eg bid, halltu ei Verolld vid, vilier þu sofna i Frid.

Hreinañ Vinskap hallt þu, vid HErrañ þiñ JEsum nu, J helgre Hiartans Trw, fraa Heimsins Elsku þier snw.

Hañ eirn maa hiaalpa þier, þa Hiaastod Mañleg þver, Heim þig a Hondum sier, J Himna Sælu ber.

Pad hier i Sañleik siest, er Sonur Guds andadest, Sorgeñ þa særde mest, sem hañ elskudu best.

Christs-Born eru Kross-Born, vid Christum hlijdnis-giorn, hañ sijner þeim Hiaalp og Vorn, þo hord

hørd sie Swörr Kvorn.

Pu skyllder þar ad gaa, þo þeir stæde langt fra, Aller samhuga siaa, Son Guds Kross festan aa.

Komed so Konur og Meñ, ad Krossenum JEsu señ, þo Nauden þreinge þreñ, þar fæst nog Lækningeñ.

Kom þu Saal Christeñ hier, sem Kross og Mañrauner ber, settu fyrer Siooner þier, Son Guds sem pijndur er.

Uppaa hañs heilog Saar, Horfeþijn Trwen klaar, þad mijker Trega og Taar, Temprar oll Sorgar-Faar.

Siertu Syndugur Mañ, særdur uñ Hyggju Rañ, horf þu beint uppaa hañ, sem Hiaalp þier i Krosse fañ.

Hvor sem Eyr-Ormeñ leit, af Jsraels Mañ Sveit, Eytred ei aa þañ beit, oll stillteft Plaaga heit.

So stoor Synd eingeñ er, ad meige granda þier, Ef þu aa JEsum sier, ydrande i Trwñe hier.

Sie eg þig sæll JEsu, so sem aaleingdar nu, Von mijna og veika Trw, vid bid eg hresser þu.

Pa eg sie Saareñ mijn, Særer mig Hiartans Pijn, Saareñ þa sie eg þijn, Sorg oll og Kv... dvijn.

Laat mig O JEsu kiær! Alldrei so vera þier, fiær, ad siaae eg ei Saar þijn skiær, Pa Sorge Symd mig slær.

Veit mier eg verde og sie, Pin þiñ og Kv...

nge, Po hverſe Heilſa og Fie, Hiaalp mun þa nog i Tie.

Jeg fel i ſierhvert Siñ, Saal og Lijkama miñ, J Valld og Vinſkap þiñ, Vernd og Skiool þar eg fiñ, Amen.

# XLVIII. Psalmur.

## Um̃ Christi Siijdu-Saar.

Ton, Tunga mijn af Hiarta hlioode, etc.

†

ÞA Kvollde Judar fraa eg fære, til Fundar ſeñ vid Pilatum, og þeſs beiddu ad ecke være, Ondud Lijk aa Kroſsenum þvi Hatijdeñ var harla nærre (hier ſo Ritning greiner um̃.)

Strijds-Møñum hañ baud ad brioota, Beineñ þeirra, og ſo var giort, Heliar-Stund þvi hreptu ſliota, hiner Tveir ſem greiner bert, Eñ JEſum lietu ſijns Lijflaats nioota, Limena hañs ei feingu ſnert.

Strijds-Mañ eirn med Heiptar-Hoote, harðlyndur gieck Kroſſe ad, Lauſnarans Siijdu lagde Spioote, Laged nam i Hiarta-Stad, Blood og Vatn þar fraa eg vtflioote, Fyrr var aadur ſpaad um̃ þad. †

Um̃hugad er einum DRottne, allra ſiña Barna Lijk, i Jordu hier þott Holdeð rotne, Huggun trauſt

traust mig gledur slijk, hañ vill ei tijnest Vin nie brotne; blessud sie, sw Elskañ rijk.

Gud DRotteñ med Giæsku Raade, giørde Adams Sijdu af, frijda Kviñu fyrst a Laade, sast hañ þo a medañ svaf, vaknadur þess ad vijsu gaade, og Veglegt heñe Nafned gaf.

Sofnadur a siñe Sijdu, Saared DRotteñ JEsus bar, so af Vatne og Bloode hañs blijdu, bygdest heilog Christneñ þar, naade hun edla Nafnefrijdu, nær til Himna stijgeñ var.

Skoda þu hvorneñ Skijrneñ hreina, skiliast nu med riettu a, ad vijsu jafnañ Vatned eina, vor Lijkamleg Augu sia, eñ Trwar Siooneñ, so mæ greina, Sonar Guds Blood þar lijtur hia.

Æ! hvad mæ eg sælañ saña, St. Thomam Postula þiñ, þa Sijdu mætte hañ Saar-þitt kañna, sijna Hond þar lagde iñ, þu munt ei mier þi-cadum baña, þad ad skoda JEsu miñ.

Allar JEsu Ædar stoodu, opnadar i Kvoleñe, Dreyra Læker dundu og floodu, uñ DRottens Lijf a Krossens Trie, Nægd af Lausnar Giallde goodu, Guds Son fyrer mig liet i Tie.

Eñ so eg skyllde sia og jæta, saña Elsku DRottens mijns, villde hañ ecke læstar læta, Lijfs Ædarnar Hiarta sijns, þvi er Sæl mijn mikel ur Mæta, Mijskunseme Lausnara þijns.

Opnar Dyr a Arkar Sijdu, iñ uñ geingu Skiepnurnar, sem sialfur DRotteñ baud med Blijdu, biargast skylldu iñe þar, fyrer Vatn-

 sins

sins Floode striidu, Frelse og Liif þeim giefed var.
Liifsins Dyr a Siidu siñe, setur JEsus opnar hier, so aangrud Saala Adstod siñe, oll þa Mañleg Hiaalpeñ þver, hvor sem hefur þar Athvarf iñe, fra eilijfum Dauda leystur er.
Noe uñ siñ Arkar Glugga, upp til Himens lited fieck, hallden dimum Hrygdar Skugga, hatt þa Vatusins Flooded gieck, so hañ mætte uñ siider hugga, Soolar-Ljooma Byrtañ þeck.
Giegnum Jesu helgast Hiarta, i Himeneñ uppeg lijta maa, Guds mijns Astar Byrtu biarta, bæde sæ eg ad reina og siaa, Hrygdar Myrkred Sorgar svarta, Saalu miñe hverfur þa.
Guds var maattug Millden prwda, Moyses þa Steineñ sloo, Ut til allra Israels Bwda, aagiætt Svala Vatned droo, hreste Þyrsta, Piaada, og Lwda, þeim so nija Krapta bioo.
Þa siaalfur Gud a Sonarens Hiarta, sijnum Reide-Sprota slær, uñ Heimsins Attar alla Hiarta, wtrañ Svala-Lynden skiær, Saaleñ vid þañ Bruñen biarta, Blessun og nija Krapta fær.
Vid þeñañ Bruñeñ Þyrstur dvel eg, þar mun eg nija Krapta faa, J þesse iñ mig Fylsneñ fel eg, fargar eingen Sorg mier þa, Sælañ mig fyrer Krona tel eg, hun tekur so DRottenst Benkum aa.
Hiartad mitt er HErrañ goode, Hryggelega saargad miog, Þvo þu þad med þijnu Bloode, Þess af Audmykt beyde eg, Uñe mier Boot aa Mædu

Mædu og Moode, Myskunsemeñ Guddoomleg.

Hiartans iñstu Ædar mijnar, Elske, Lofe, Prijse þig, Eñ Hiarta-Blood og Beniar þijnar, Blesse, Hresse, Græde mig, Hiartans þijdar Packer fijnar, þier sie Giæskañ Eilijflig, Amen.

# XLIX. Psalmur.

## Uñ Christi Greptran.

Med Lijk-Saungs Lag.

†

JOseph af Arimathia, Edalboreñ Raadsherra sá, Gydinga Svik vid Son Guds skied, Samþyckt hafde þeim alldrei med.

Hañ var Lausnarans Læresveirn, Lijfernis froomur, Dygda hreirn, Gydinga hræddest Heiptar-Raun, hiellt sig ad Christo, þo a Laun.

Þesse uñ Kvollded þarnaad gieck, þa af Pilato Leyfed fieck, ad mætte JEsum andadañ, ofañtaka og Jarda hañ.

Joseph took strax af Krosse Christ, Keypte þo nijañ Lijndwk fyrst, Nicodemus kom þegar þar, Þangad kostuleg Smyrsleñ bar.

Joseph Grøf eina ætte þar, wtkloppud sw i Steine var, J Aldengarde þar allskamt fra, Eingeñ fyrr Daudur i heñe lá.

Dijrdlega smurdu DRottens Lijk, Dæmeñ má oss ur fiña slijk, byrgdu med Steine bwna

Grof, Burtgeingu strax fyrer utañ Tof.
Maria Jacobs Mooder ein, Magdalena a somu Grein, Salome eirneñ sat þar hiaa, saau vors HErra Greftran a. †
J þeirra Selskap Saal mijn bliid, settu þig nid, ur litla Tijd, Greftrun þijns HErra giæt vel ad, Sagnlaust mun ecke vera þad.
Vid JEsu Greftran jeg sæ sied, Joseph og Nicodemum med, aadur þordu þeir ecke Christ, Opeñberlega ad jáata fyrst.
f. Nu faa þeir næsta nijañ Dug, nooga Diorfung og styrkvañ Hug, Auglioostega so aller siaa, Elsku sem DRottne hofdu aa.
Nivkande Trwar-Hóreñ hier, Helgur Ande so vidnærer, Lioomande þar af Liooſed skijn, Lijfgar hañ allt med Krapte sijn.
Huggest þeir nu sem Hiartad deygt, hafa og Trwar Megned veikt, Bidie um Styrk og stodugt Gied, Stunde og lære Guds Ord med.
Veittu JEsu ad veik Trw mijn, vaxe Dagsdaga og Elskañ þijn, Efleſt so med mier Jñvortes, Vera good siaaest Merke þess.
Añad þu lijka merkia maatt: mislijkar DRottne aa aungvañ Haatt, þo Heidarleg sie hier a Jord, Hollde Utvalldra Lijk-Før giord.
Mætast Guds Anda Mustere, Mañs var Rett-Christeñs Lijkame, Þvi maa honum veitast Virding riett, Vel med Stilling og Hoofe sett.
Erfis Dryckur og Onijtt Prjaal, ecke a skylldt vid

vid þetta Maal, Heidingia Skickun Heimskuleg, hæfer Christnum a aungvañ Veg.

Ætijd þa sier þu Saalad Holld, sett vera nidur i Jardar Molld, Hryggur þu vert, og hugsa bradt, hier vid þu lijka skilia att.

Lagt þegar nidur Lijked sier, lættu sem Daudeñ hvijsle ad þier, længt maa skie ecke lijde uñ þad, legg eg þig eins i slijkañ Stad.

Goode JEsu fyrer Greftran þijn, gief þu sijdasta Utfør mijn, verde farsæl og Fridsom mier, Frelsud Saal nære Dijrd hia þier.

I þridia Maata Huggun hrein, hier veitest mier a alla Grein, Guds Sonar Holld þvi greftrad var, Greftrun miñe til Virdingar.

Helgum Guds Børnum, HErrans Holld, Helgade bæde Jord og Molld, Grøfeñ þvi er vort Svefn-Hws sætt, so maa ei granda Reideñ hætt.

So ad lifa eg søfne hægt, so ad deya ad Kvøl sie bægt, so ad Greftrast sem Guds Børn hier, gief þu sætaste JEsu mier! Amen.



# L. Psalmur.

## Uñ Vardhallds Meñena.

Ton, Eins og sitt Barn, Fader Æstgiaru, etc.



Hulldungar Juda añars Dags, Jñ til Pilatum geingu strax, sogdu: Herra, vier høfum mest, i Huga fest, hvad sa Falsare hermá liest.

Epter þriα Daga Ott fyrer Sañ, Uppriiſa mun eg, ſagde hañ, vid ſliiku er beſt ad leita Lags, laat geyma ſtrax, þeſſa Grøf iñ til þridia Dags.

Maaſkie Liiked med Leyndum hlioott, Læreſveinar hañs take uñ Noott, og Lijdnum ſeige þad Liga-Skin, þa liiſt ei Kyn, þo verde ſw Villañ verre eñ hin.

Pilatus viiſt þeim Vardhalld fieck, Vakteñ ſtrax wt af Stadnum gieck, Grøfeñe bliſu HErrans hia, og ſo til ſiaa, ſettu Iñſigle Steineñ a. †

Gydinga hørd var Heipteñ heiſk, Hiartans Blindleike og Villañ treiſk, þeim kuñe ei nægiaſt Kvøl og Bañ, ſem Chriſtur fañ, lijka Daudañ þeir laſta hañ.

Fordaſtu ſoddañ Fiſſku Grein, framlidens Mañs ad laſta Bein: ſa daude hefur ſiñ Doom med ſier, hvør hellſt hañ er, ſem beſt haf gaat aa ſiaalfum þier.

Gydingar villdu veita rijrd, vørs Lauſnara Uppriſu Dijrd, eñ DRottens Valld og Viisdooms Raad, þeſs vel fieck gaad, Verk ſitt framkvæmde viiſt med Daad.

Hefde ei Vakteñ geymt og giætt, Grafareñar ſem nu var rædt, Orſøk var meire ad efaſt þa, hvørt upp ried ſtaa, DRotteñ vor JEſus Daudaum fraa.

Eñ þeir ſiaalfer, og er þad viiſt, Uppriſu Drottens hafa liiſt, þo kieñemeñ Juda af kalldre Sigd, kvalder af Blygd, keyptu þa til ad bera Lygd.

Øll

Oll Svikraad Maña og Atvik ill, Onijter ORotteñ þa hañ vill, hañs Raad um Eilijfd stødugt stair, og Stioorneñ klair, Slægdeñ Dramblætra sliett forgaar.

Hvijle eg nu sijdast Huga miñ, HErra JEsu vid Legstad þiñ, nær sem eg giæte ad Greptran þijn, Gledst Saala mijn, Skielsing og Otte Daudans dvijn.

Sekter mijnar og Synder barst, sialfur þeg-ar þu pijndur varst, uppa þad dooftu ORotteñ kiær, so kvittudust þær, Hiartad þvi nijañ Fögnud fær.

Þu groofst þær nidur i Grof med þier, gafst þitt Riettlæte aptur mier, J Haffins Diwp sem fyrr-spaad finst, þeim fleigder inst, um Eilijfd verdur ei a þær minst.

So er nu Syndeñ iñsiglud, ydrande Saala kvitt vid Gud, Eilijft Riettlæte uppbyriad, i añ-añ Stad, trwud Mañeskia þiggur þad.

Daude þiñ JEsu deide hier, Daarlega Hollds sins Gyrnd i mier, Grofeñ þijn hylie Glæpe mijn, fyrer Guds Augsijn, Efle mier Styrk Uppriſañ þijn.

Stein-Proo mijns Hiarta wthoggveñ siest, heilagur Ande vañ þad best, Lijndwk Trwar eg læt i Tie miñ Lausnare, Jlmande Smyrsl Ydraneñ sie.

So fiñ eg hæga Hvijld i þier, Hvijl þu JEsu i Briooste mier, Jñsigle Heilagur Ande nu, med

Ast og Trw, Hiartad mitt, So þar hvilest þu.
Dijrd, Valld, Virding, og Vegsemd hædst,
Virtka, Makt, Speke og Lofgiord stædst, Sie
hier O! JESU HErra haar, og Heidur
klaar, Amen, Amen um eilijf Aar,
AMEN.

* * *
** ** **

## Til Lesarans.

Merk þad, ad i þessare Passiu-Psalmañna Edition, er Textenn fra Utleggingunne so leides adgreindur, ad þar sem Textins byriast, stendur þetta Merke †. Og þar sem hañ endast, þetta †.

## ERRATA.

Pag. 17. Lin. 28. les Eg. P. 34. L. 2. l. Ongvum. P. 76. L. 22. l. Pvert. P. 87. L. 10. l. Kvøl. P. 98. L. 21. l. Mig. P. 102. L. 9. l. Aptur. P. 107. L. 3. l. Gud. P. 110. L. 6. l. Psalmur. P. 111. L. 4. l. Kroppur. P. 119. L. 14. l. Nañ.

Og hvad fleira hefur maatt yfersiaast i Upplestre Bookareñar, Er Gudhræddur Lesare umbedeñ ad Lagfæra, og lesa i Maaled.

* * *
** ** **

# Registur yfer þessa Passiu-Psalma.

## A.



## E.



## F.



## G.



## H.



## J.

uñ

* * *

# LXVI. Davids Psalmi,
## Ur Latinu epter Buchanano Utlagdur og i Liood-Mæle uppsettur,
Af Saal. Herra
# Steine Jons-Syne/
Byskupe Hoola Stiftis, under þessum Notum.

Hei



Heimsins Piood i ollum Attum, fraa



Uppgang Soolar fram ad Næturn,



Eja, Lofed HErran haatt.

Eja, Siinged sætum DRottne, so hans Makt og Nafn ei þrotne, Hefied þad i Himenen.

Seiged: Helgur Heims Raadande, hvorsu miøg er Forundrande, Vegsemd Dijrdar Verka þijn.

Hvad stoor er þin styrkve Mættur, steipest Fiandmann Samdrættur, fyrer Valld þitt vollduga.

O! Þu Fader allra hædste, O! Þu Dijrdar Kongur stædste, Heidre Nafn þitt Himen og Jord.

Hiartad vort þier Heidur siinge, Af Hug og Muñe Lofgiord kliinge, Hliid a þesse Hlioodfære.

Eja, Komed athugande, oll Verk DRottens forundrande, giæted ad þeim eirrka vel.

Ydar

Ydar Fødurs Forsioon mestu, Furdu-[illegible]
og Raadeñ bestu, þacked aller Pioonar hañs.
Ogna Haf hañ uppþurkade, eingeñ vard ha-
ñs Foolke Skade, Botn þess vard ad þerre Iörd.
Þurrum Footum þad i giegnum, Piooden̄ gieck,
ad Ovin slegnum, Siooreñ stood vid Si[illegible]
þeim.
Er hañs Stioorn um̄ Eilijfd Aara, Augna
ORotteñs Siooneñ klæara, allar Piooder lijt-
ur siooſt.
Ecke lijdur Alls-Raadande, ad med Þverwd-
moote stande, Drambsamer hañs Dijrdar Makt.
Heidred ORotteñ Heimsins Lijder, Heid[illegible]
ORotteñ allar Tijder, Honum Einum Æran̄
ber.
Eirn fra Dauda oss hañ leyste, eirn gaf vor-
um Footum Hreiste, eirn oss ollum Lijfed lier.
Eins sem Silfur oss þu reinder, O vor G[illegible],
þa Mykun leinder, Net Ovina egnder oss.
Þwnga uppa oss þu fellder, Of-Sookn Fiand-
manaña sellder, setter oss til Hofuds Her.
J Vatn og Elld, Vor Hiartans Herra, hef-
um geinged, ei liest þverra, Endurnæring oss fyr-
er þad.
J þitt Hws med Audmiukt alla, eg þvi kiem-
Þig bid og kalla, laat mitt Offur þocknast hier.
Hvad eg hier i Hormung miñe, heita giorde
ollu Siñe, Eg vil feigeñ efna þad.
Eg vil foorna Fienu hreina, fyrer Naut og
Saude

Saude eina, Losgiord Muñs eg lær i Tie.

Komed hijngad hættlofande, HErrans Pioðer Gud-Elskande, þier sem Otteſt einañ hañ.

Pa til hañs eg hroopa nææde, hañ að mijnum Bænum gææde, Lof hañs vare um̃ Eilijf Aar.

Ef eg hefde Jllt i Siñe, ei munder þu giegna miñe, Bænar-Rauſt, O goode Gud!

Eñ þu heyrer HErrañ blijde, Hrooped mitt i Sorg og Strijde, Náádar-rijkt þitt Eyra er.

O! þeim Fodur allra beſta, eg ſkal færa Lofgiord meſta, Bæner mijnar heyrde hañ.

Og mig liet i Anaud miñe, ei Hiaalparlauſañ nockru Siñe, Honum eilijf Æra ſie, Amen.



## Yðrunar Pſalmur Ur Þijſku Snweñ aa Jslendſku.

Ton, Nææturañ oll og Edle Mañs, etc.

Ó Gud jeg ſkrijð fyrer Augſijn þier, Med Angur, ſaarum Trega, O Gud þijn Myſkun eilijf er, eg medgeing Hiartanlega, alla þa Sond, og Broteñ blynd, fraa Barndooms Æſku miñe, ſem giort hefe eg, og morg eru mioo, Mein ſaanga Hiarta og Siñe.

Synder þær ſem mig hefur hendt, Huxan Mañs ei kañ telia: Þo fæ eg DRotteñ þeim ej leynt, þvi mig þær aavallt kvelia, þiñ kiære Son, fraa Synda Smaan, med ſijnum Deyd mig leyſte,

og gaf Hoggstad, samt epter pad, lat nijtt mi. Satan Freyste.

Mitt Oþacklæted eirneñ er, allt hijngad til hit. ...rdsta, jeg hefe alldrei þackad þier, af Pele Hiartans næsta, Astar Trygd þijn, sem æ nij sk... nie Eisku og Giæsku þijna, sem ad vid mig.. rijkuglig, Samvitsku slær nu mijna.

Miked Polgiæde og Myskun þijn, margt Aar mig lided hefur, og ressad ecke Afbrot mijn, sem opt þa Synden krefur, Æ! fyr og nær, O! Hirder kiær, um mig i Briooste kiender, þijn Elska og Naad, oll brwkar Naad, ad mier til þijn eg vende.

Orded þitt heilagt hefur þrætt, a Hiartans Dyr klappad mijnar, Ande þiñ jafnañ hroopad hætt, Himna Dyr mier ad sijna, þijn Elskañ bl..., hefur Aar og sijd, Ydrunar giort mig beida, ... Krosse, Eymd, Praa, Praut stoorre og smaa, þijn mig viliad leida.

Eñ samt jeg giet ei þrætt fyrer þad, þo þu riett... er mig kalla, eg hef þvi giefed aungvañ Stad, og Eyruñ þad heyrdu valla, fyrer Prioodsku G... ed, Prælynde med, vid þier eg Hnackañ reige, þo hefur þijn Naad, og þolgood Daad, þyrmt mier eñ glatad eige.

Pu kyñer opt, og þad er Von, þo af mier Luse svipter, og mier sem einum orgum Pisoñ, allt i Helvijte steypter, þar æn Aflæts, Ofeileñ, ... ts, J Saur mig velkte Lasta, samt gaf mier ...

om, þijn Giæskañ froom, giorder ei Refsing hasta.

Nær Hiartad þar, uñ þeinker mitt, þad mætte i sundur sprijnga, og fyrer Uggleysed Angur strijdt, i Merg og Bein sier þreingia, Eingeñ er til, su eilijf Kvøl, ad eg ei forþient hafe, Overdur er, ad Jordeñ mier, Upphellde og Næring giefe.

Overdur vijst eg aumur er, ad þijn Skiepna heita meige, eñ verdur ad Heims allur Her, unðer Refsijng mig drage, slijk Yfer-Raad, hefur Syndeñ nææd, soddañ mæ eg medkieña, reikner þu øll, mijn Afbrot ill, uñ Eilijfd hlijt eg ad breña.

O Fader! Milldeñ Eilijfleg, ad Footum skrijd eg þijnum, hrek ei burt þañ sem hroopar æ þig, i Hiartans Angre sijnu, Augunum [illegible], i Myskun nu, ad mier, Synd-þiaadum Mañe, lijt vid med Naad, Lijfgar mig þad, linar strax Angist miñe.

Astar-Hiartad mier opna þitt, þañ Elsku Bruñeñ sæta, gleym miñe Synd, græd Angur mitt, gief mier Lijf mitt ad bæta, med øllu þvi, þier er Þocknan i, þar med hia Vondu sneide, uñs Jeg heim fer, med Eingla Her, J Himna Dijrd og Glede, AMEN.



